## BRÉF TIL PRESTA OG PRÓFASTA.

Það er harla áríðandi hverri þjóð að þekkja til hlítar land það, sem hún býr í, og ástand sjálfrar sín í öllu tilliti; en það getur hún því að eins, að rétt og greinileg lýsing á landinu og þjóðinni hafi verið samin og sett á bækur, er síðan komi í almennings hendur. Vér Íslendingar höfum ekki hingað til eignazt neitt þess konar rit um land vort og sjálfa oss, því það, sem ritað hefir verið í þessari grein, er víða á dreif í bókum og bréfasöfnum, og myndi ekki heldur hrökkva mikið til nákvæmrar lýsingar á landinu og þjóðinni, þótt það væri allt komið á einn stað.

Deild hins íslenzka bókmenntafélags í Kaupmannahöfn hefir ásett sér að bæta úr þessu eftir mætti, og hefir í því skyni falið oss á hendur fyrst um sinn að safna öllum skýrslum, er vér getum fengið, fornum og nýjum, til nýrrar og nákvæmrar lýsingar á Íslandi, er síðan verði samin og prentuð á kostnað félagsins. Vér höfum allan vilja til að leysa þetta starf sem bezt af hendi; en oss getur þá að eins auðnazt það, að landar vorir, er vér leitum upplýsinga hjá, bregðist sem bezt undir það, hver með öðrum. Vér leyfum oss nú að senda yður fyrirspurnabréf, samhljóða þeim, er vér jafnframt sendum öllum

prófföstum og prestum á landinu, og erum þess fullöruggir, að þér auðsýnið félagi voru og oss þá góðvild, að svara spurningum vorum sem bezt og greinilegast, að svo miklu leyti sem þær geta átt við yðar prestsumdæmi, og sjáið ekki í fyrirhöfnina, sem raunar er töluverð, en lítið heldur á hitt, að félagi voru er það *ómissandi*, eigi fyrnefnd lýsing á Íslandi að verða svo skýr og áreiðanleg, sem vér gjarnan vildum.

Endist yður ekki hið næsta sumar til að svara spurningum vorum eins vel og þér mynduð kjósa, biðjum vér yður að senda oss seinna það, sem á brestur, og leggjum vér á yðar vald, hvort þér viljið heldur svara beint áfram hverri spurningu fyrir sig, eður semja sjálfir lýsingu á prestsumdæmi yðar, og hafa þá svo mikla hliðsjón af spurningum vorum, sem við verður komið, en senda oss síðan þessa lýsingu eins fljótt og orðið getur. Og svo þér getið hér um bil séð, hvernig skipulag bókarinnar muni verða, og raðað svo niður eftir því efninu í sóknarlýsingu yðar, leyfum vér oss að nefna hin helztu atriði hennar, í þeirri röð, sem oss finnst þau eigi að verða, og deild félags vors í Kaupmannahöfn hefir látið sér vel líka.

I.

1. Afstaða og stærð landsins.
2. Landslag (Orografi)
   Fjallaskipan, (fjallgarðar, einstök fjöll, hálsar og heiðar, o. s. frv.).
   Héruð og dalir, strandir, nes og eyjar.
   Eldfjöll, eldgos, jarðbrunar, hraun.
   Um uppkomu og myndun landsins.

3. Haf og vötn.
   Hafið.
   Flóar, firðir og víkur.
   Um uppsprettur (hvernig vatn sprettur af jörðu).

---

   Rennandi vötn.
   Stöðuvötn.
   Hverir og laugar.
   Ölkeldur.
4. Veðráttufar og loftslag.
   Vindar.
   Regn (skriður, jarðföll).
   Snjór (snjóflóð).
   Jöklar.
   Hafís.
   Hiti og kuldi.
   Segulmagn.
   Rafurmagn (skruggur, hrævareldur).
   Loftsjónir (norðurljós, stjörnuhrap, vígahnettir, o. s. frv.).
5. Frá auðæfum náttúrunnar:
   Jarðverur (steinar, málmar, o. s. frv.).
   Jurtir.
   Dýr.
6. Frá kynferði og eðlisfari þjóðarinnar.

II.

1. Landsbyggð, allt í frá landnámatíð.
2. Læknisdæmi.
3. Veraldleg skipan, allt í frá landnámatíð.
4. Andleg skipan, allt í frá landnámatíð.

III.

A. Uppruni og forlög þjóðarinnar, (almennt yfirlit).

B. Þjóðarlýsing.

I. Líkamleg efni:

1. Bjargræðisvegir.
2. Kunnátta og handiðnir *(Industri)*.
3. Kaupverzlan.
4. Íþróttir.

II. Andleg efni:

1. Mál.
2. Bókmenntir.
3. Listir.
4. Siðfræði.
5. Trúarbrögð.

C. Landstjórnarsagan.

1. Stjórnarlögun *(Forfatning)*.
2. Stjórnarathæfi *(Forvaltning)*,
   a. veraldlegt,
   b. andlegt.

Af þessu yfirliti sjáið þér félag vort ætlast til, að bók þessi verði býsna-yfirgripsmikil. Það er nú að miklu leyti komið undir góðvild yðar og annara, sem vér höfum orðið að mæða með fyrirspurnum vorum, hvort hún getur á sínum tíma orðið svo af hendi leyst, að hún verði félagi voru og fósturjörðu til gagns og sóma, og öllum, innlendum sem útlendum, Íslands vinum til nytsamlegs fróðleiks og skemmtunar.

Í umboði hins íslenzka bókmenntafélags deildar.

Kaupmannahöfn þann 30. d. Apríl-mán. 1839.

*Finnur Magnússon. Jónas Hallgrímsson. Konráð Gíslason. Brynjólfur Pétursson. Jón Sigurðsson.*

---

## SPURNINGAR TIL PRESTA.

1. Hver eru takmörk sóknarinnar (sóknanna) á alla vegu?
2. Hver eru þar fjöll, hálsar, heiðar eða fell*)? Hvernig eru þau áföst öðrum fjöllum eður sín á milli? Í hverja átt liggja þau, hvert um sig, og hvar enda þau? — Ef þau koma úr öræfum — hvað heita þá öræfin á bak við þau, svo langt sem menn þekkja, og hvernig er þeim háttað? Hvernig er hvað af þessu lagað eður útlítandi (hátt eður lágt, bratt eður óbratt, klettótt, bert eður grasi vaxið)?
3. Hverjir eru þar jöklar við byggð eður í öræfum, og hvernig liggja þeir? Eru þeir hájöklar, falljöklar eður skriðjöklar? Eru þeir gengir? Aukast þeir svo menn viti, og í hverja átt?
4. Hvers konar klettar eru þar í fjöllum (blágrýti, móberg, stuðlagrjót o. s. frv.); og sé þar meir en eins konar grjót, hvernig liggja þá lögin?
5. Eru þar nokkurs staðar, svo menn viti, málmar eður merkilegar steinategundir í klettum eður jarðlögum, og hverjar, ef eru?
6. Eru þar nokkrar leifar í jörðu, svo menn viti, af fornaldar- jurtum eða -dýrum (t. a. m. surtarbrandur, steinkol, skeljar, o. s. frv.), og hvar, ef eru? Og hvernig er jarðlagið kringum þær?
7. Eru þar brennusteinsnámur, og hvar, og hvernig er þeim háttað; og hvernig eru þær notaðar?

*) Þar sem fjöll, vatnsföll, bæir eður annað hafa eður hafa haft fleiri nöfn en eitt, biðjum vér, að þau séu skilmerkilega tilgreind.

8. Hverjir eru þar dalir (aðaldalir og afdalir), hvernig liggja þeir, og hvað heldur að þeim?
9. Hver eru þar nes (höfðar, múlar, o. s. frv.), og hvernig liggja þau (í hverri röð, í hverja átt o. s. frv.)?
10. Hverjar eru þar eyjar, byggðar og óbyggðar? Hversu stórar eru þær, hver um sig, og hvernig lagaðar? Í hverja átt og hvernig liggja þær, hver frá annari og frá meginlandi?
11. Hver eru þar eldhraun? Hvaðan eru þau komin? Hvar liggja þau (takmörk þeirra á alla vegu)? Hversu stór eru þau eftir ágizkun? Eru nokkrar gjár í þeim merkilegar, eða hellar, og hvernig er þeim varið? Hvað vita menn um uppkomu og aukning hrauna? Að hve miklu leyti eru þau ber eða gróin? Grær þar gras eða skógur?
12. Hvar eru þar aðrir hellar, og hvað heita þeir? Hve stórir eru þeir, og að hverju leyti eru þeir merkilegir?
13. Hverjir eru þar skógar, hversu stórir og hversu góðir? Fer þeim fram eða aftur, og hvað veldur því? Vex þar nokkur annar viður (t. a. m. reyniviður), og hvar, og hve mikill?
14. Hvernig er þar landslag, yfir höfuð að segja, (votlent eða þurlent, slétt, móótt, melótt, eyðisandar o. s. frv.)?
15. Hver hefir þar orðið breyting á landslagi síðan landnámatíð, svo sögur fari af?
16. Hverjir eru þar firðir og víkur, og hver eru þar sund? Hvernig liggur það allt og í hverri röð? (Lengd og breidd eftir ágizkun).

17. Hvar eru þar hafnir og beztar lendingar; hverjir eru kostir og ókostir þeirra?
18. Hvar eru þar rastir, boðar, grynningar, rif eða sker? Er þar útgrynni eður aðdjúpt? Aukast þar grynningar svo menn viti?
19. Hver eru þar rennandi vötn, stór og smá; hvar hafa þau upptök sín, hvar renna þau, og í hverja átt? Eru þau vatnsmikil, ströng, lygn, og hvernig eru þau yfirferðar? Hverjir eru í þeim fossar, og hvernig lagaðir (breiðir, háir, beinir)? Hvernig er farvegi háttað (gljúfur, bakkar, eyrar)? Að hverju leyti hafa þau breytt farvegi sínum svo menn viti? Hvar eru á þeim helztu góð eða hættuleg vöð eða brýr, kláfar eða ferjur, og hverjar lögferjur? Hversu djúpar eru þar stórár við sæ, og hafa menn sögur af, að skipum hafi verið lagt upp í þær, og hvert?
20. Hver eru þar stöðuvötn, og hve stór, og hvar liggja þau? Eru í þeim eyjar, og hverjar eru þær og hversu er þeim háttað?
21. Hverjar eru þar laugar, hverir, ölkeldur, og hvar og hvernig er þeim háttað?
22. Er þar veðrasamt, og af hverri átt, og um hvern tíma árs mest eður minnst?
23. Er þar rigningasamt eður þurkasamt, og af hverri átt mest eður minnst, og hvernig hagar því eftir árstímum?
24. Er þar snjóvasamt á vetrum, og af hverri átt mest eður minnst?
25. Hver átt er þar köldust, og hver heitust?
26. Hvort er þar nokkur regla í veðráttufari, svo menn hafi tekið eftir — til að mynda, að sama

eður líkt veður gangi þar ár eftir ár um sama leyti.

27. Verður þar vart við reiðarþrumur, og hversu oft, og um hvern tíma árs er það gjarnast, í hvaða veðri? Hefir þar orðið grand að lofteldi svo menn viti?

28. Sjást þar nokkrar sérlegar loftsjónir, eður með hverju móti?

29. Kemur þar hafís, og eftir hverju hafa menn tekið um aðferð hans og eðli og afleiðingar?

30. Hverjir eru þar bæir (og hjáleigur) eftir bæjaröð? Í hverja átt og hversu langt liggja þeir, hver frá öðrum? Hvar stendur hver þeirra (t. a. m. undir hverju fjalli, við hverja á, fjörð eða vík, o. s. frv.)? Hver er dýrleiki hverrar jarðar? Hvernig eru landskostir hverrar jarðar (útigangur, heyskapur, o. s. frv.)? Hverjir eru helztu ókostir jarða? Liggja þær undir áföllum, og hverjum (skriður, snjóflóð, landbrot, sandfok o. s. frv.)? Að hve miklu leyti vita menn til, þær hafi gengið af sér eður batnað?

31. Hverjir bæir eiga þar selstöður, og hvar? Hverjar þeirra eru notaðar, og hversu lengi, hverjar eru niðurlagðar, og hve nær, og hvers vegna, svo menn viti?

32. Hvar eru þar afréttarlönd? Eru það almenningar eður liggja þau undir einstakar jarðir, og hverjar þá? Hverjar sveitir hafa þar upprekstur? Hverjar réttir eru þar, og hvar, og hve nær haldnar, og hvaðan til sóttar?

33. Hver er þar veiði til lands og sjávar (selveiði, alls konar fiskveiði, fuglveiði, hreindýraveiði, refadráp), og hver er veiðiaðferð við hvert um sig?

— Hvar eru veiðistöður? Hver eru þar fiskimið, hákarlamið, nótlagnir, netalagnir, lóðamið? Hver eru þar fuglabjörg, og hvernig er þeim háttað?
34. Um hvern árstíma eru veiðar stundaðar, og með hverjum hætti? Fer þeim aftur eða fram?
35. Hvað vita menn þar ljósast um allar fiskigöngur?
36. Hve nær koma og fara farfuglar þar vor og haust?
37. Hver eru þar önnur hlunnindi (eggvarp*, dúntekja, fjaðratekja, lundatekja rekar, grasatekja, sölvatekja, meltak, mótak, hvannatekja, berjatekja, litunargrös o. s. frv.), og hvernig eru þau notuð? Fara þau vaxandi eða minnkandi?
38. Eru þar eyðijarðir, og hverjar, og hvar, og hvernig og hve nær hafa þær lagzt í eyði.
39. Hver eru þar nýbýli, og hve nær upptekin?
40. Hvar liggja alfaravegir um sóknina og úr henni í aðrar sóknir á alla vegu; (fjallvegalengd eftir ágizkun)? — Vegabætur: Ruðningar, brýr, vörður, sæluhús o. s. frv. — Torfærur: Hvernig þeim sé varið, og hvort úr þeim verði bætt. Áfangastaðir á fjallvegum. Hverjir bæir standa næstir fjallvegum beggja vegna?
41. Hvar er kirkjustaður (annexía eður prestssetur)?
42. Hvar hafa verið kirkjur eða bænhús, sem nú eru aftekin, og hve nær hafa þau lagzt niður, og hvaða bæir hafa átt þangað (kirkju)sókn?
43. Hverjar (kirkju)jarðir liggja til kirkjunnar, og hver ítök?
44. Hver er lénsjörð prests (á þingabrauðum)?
45. Hversu oft skal messa á hverri kirkju?

*) Eru þar hlaðnir varphólmar, og af hverjum.

46. Hverjar eru þar Krist-fjár-jarðir, fátækrajarðir eður aðrar jarðir til almennra þarfa? Hver hefir umsjón þeirra? Hve mikið er afgjald þeirra, og til hvers er því varið? Hvernig eru þær tilkomnar, svo menn viti?
47. Hverjir bæir eru þar reisulegastir og bezt húsaðir? Nota menn þar rekavið eður innlenda skógarafta til húsabygginga?
48. Hver eru þar kauptún? Hversu fjölmenn eru þau? Eru þar mörg kaupmannasetur? Hverjir búa þar fleiri en kaupmenn? Hver eru þar (eður annarstaðar í sókninni) hróf handa þiljuskipum, hvar liggja þau, og hvernig er þeim varið? Hve mörg eru þar (í kaupstaðnum) steinhús, timburhús, torfhús? Hver eru þar fiskitökuhús eða önnur hús utan kaupstaðar, er liggja undir kaupstaðinn?
49. Hverjir eru þar bjargræðisvegir? Hverjir af þeim eru arðsamastir, og hverjir mest ræktir?
50. Eru þar hafðar færikvíar? Eru kýr hafðar inni á sumrum, eða hestar traðaðir? Eru þar höfð beitarhús á vetrum? Tíðkast þar borgir eður önnur fjárhús?
51. Hvernig er þar stunduð almenn jarðrækt, túngarðahleðsla, túnasléttun, greftir til vatnsafleiðinga, skriðugarða-hleðsla o. s. frv.?
52. Hvernig er þar stunduð kálgarðarækt, kartöflur eður jarðepli?
53. Hvað er þar haft til eldsneytis?
54. Er þar nautfé eður sauðfé, svo menn viti, af útlendu kyni, og hversu arðsamt að tiltölu við hið innlenda?
55. Hvernig hagar þar allri vinnu, inni við og úti

við? Hver er þar innivinna á vetrum og hver útivinna? Í hverri viku sumars er sláttur vanur að byrja og enda?

56. Hverjar íþróttir eru þar tíðkanlegar (sund, skot, skíðaferð, skautaferð, glímur o. s. frv.)? Hverjar mest tíðkaðar eður af hversu mörgum o. s. frv.
57. Eru þar leikin hljóðfæri, og hver og af hve mörgum? Þekkja menn þar nótnasöng?
58. Hvað hafa menn helzt til skemmtunar?
59. Hve margir eru þar skrifandi?
60. Aldur og kyn þeirra, sem ekki eru skrifandi?
61. Hvernig er siðferði þar varið? Í hverju er því helzt ábótavant? Fer því aftur eða fram?
62. Fer trúrækni þar aftur eða fram, eða þekkingu trúarbragðanna?
63. Eru þar læknar settir af konungi, eður aðrir, og þá hverjir, er leyfi hafa til lækninga?
64. Eru þar yfirheyrðar yfirsetukonur, eða aðrar, er leyfi hafa til þeirrar iðnar?
65. Hverjir sjúkdómar eru þar almennastir? Eru þar nokkrir sérlegir sjúkdómar (t. a. m. ginklofi, holdsveiki) og hverjir?
66. Hefir almúgi þar nokkur innlend meðöl við sjúkdómum, og hver (t. a. m. lækningajurtir, jarðböð, sjávarböð, laugar o. s. frv.)?
67. Er kvikfénaður þar undirorpinn nokkrum sérlegum sjúkdómum? Hafa menn nokkur ráð við þeim, og hver?
68. Eru þar nokkrar fornleifar, t. a. m. rúnar í hellum eður á björgum eður hellum, einstakir rúnasteinar, eður forn leturskurður eður myndir á trje- eður málm-smíði, ellegar önnur merkileg fornrit

á bókfelli eður vefnaði, ellegar fornar húsatóftir, naust eða hróf, dómhringar, garðlög, steinar (blótsteinar, hörgar, Grettis-tök) eður haugar?

69. Eru nokkrar fornsögur manna á milli, og hverjar, eður fáheyrð fornkvæði, og hver?
70. Hverjar fornleifar hafa fundizt þar (eða verið geymdar), svo menn viti, sem nú eru þar ekki framar, og hvað er orðið af þeim?

---

## SPURNINGAR TIL SÝSLUMANNA.

---

1. Hver eru takmörk . . . . . . sýslu á alla vegu?
2. Hver eru þar byggðarlög, svo sem héröð, sveitir, dalir, hverfi o. s. frv. eftir röð, og hver eru takmörk þeirra?
3. Eru takmörk sýslunnar hin sömu og prófastsdæmisins, eður hverju munar?
4. Hverjir eru hreppar í sýslunni, hvar eru þingstaðir þeirra, og hver eru takmörk sérhvers hrepps á alla vegu?
5. Eru þar nokkrar jarðir ætlaðar sýslumönnum og læknum til ábúðar, og hverjar, ef eru?
6. Um vegu: Hvar liggja alfaravegir um sýsluna, og úr henni í aðrar sýslur á alla vegu? Hversu langir eru fjallvegirnir kallaðir? Hverjar eru þar vegabætur: Ruðningar, brýr, vörður, sæluhús, o. s. frv.? Hverjar eru þar torfærur og hvar á alfaravegum, hvernig er þeim varið, og hvort mundi verða úr þeim bætt með tilkostnaði, og hve miklum, eftir ágizkun?

7. Hvernig er búningur alþýðu (karla og kvenna) í sýslunni? Breytist hann, og á hvern hátt? Að hverju leyti er hann fremur og að hverju leyti síður en í öðrum héröðum landsins, sem þér þekkið til?
8. Hversu margir sjóróðrarmenn sækja þar að jafnaði fiskiver í aðrar sýslur á vetrum og vorum, og hvert?
9. Hversu há var tíundin í hverjum hrepp, hversu margir skattbændur, og hve mikið aukaútsvar, allt fyrir 10 árin seinustu, frá 1830?
10. Hversu stórir voru hreppasjóðirnir fyrir 10 árum og hversu stórir eru þeir nú?
11. Hversu margir sveitarómagar voru í hverjum hrepp fyrir 10 árum, og hversu margir eru þeir nú?

---

12. Um veðráttufar og loftslag: Vér æskjum mikillega, yður þóknaðist að semja handa oss almenna lýsing á því í yðar sýslu, og hafa þá, eins og verður, hliðsjón af prestaspurningunum um þetta efni (22.—29. spurn.).

---

## SMÁVEGIS UM LAUGAR OG HVERI O. FL.

---

### I.

### LAUGAR OG HVERIR Á NOKKRUM STÖÐUM.

Laug er ein í Staðarsveit, á Lýsuhóli.

Hver, vel heitur, er fyrir ofan svo-nefndan Bæ í Hvammsveit. Hefir þar í fornöld verið gjörð bað-

laug og veitt í vatni úr hvernum; gott mannvirki. Nú er hún samt, sem stendur, ónotandi, vegna vanhirðingar og steinskriðu, sem í hana er fallin.

Lítill hver vellur upp úr Haffjarðarár-bakka, skammt austur frá Kolviðarnesi; rennur úr honum lækur, sem skjótt kólnar.

Laug er í skeri vestur-undan Hliði á Álftanesi. Verður skerið þurt um stórstraumsfjöru og sést þá reykur úr lauginni. — Tveir eru þar [í sveitinni] Gvendar-brunnar kallaðir; annar norðan-til á Arnarnesshálsi og hinn skammt fyrir sunnan Þorbjarnarstaði í Hraunum, rétt við veginn um Almenning.

Snarpheit lækjarbuna kemur úr grjótbrekku við jökulræturnar fyrir sunnan Selkot [undir Eyjafjöllum]; hafa menn ný-hlaðið fyrir hana og gjört laug af.

Sunnan undir Torfajökli er lítið, rennandi vatn, snarpheitt og sprettur út úr bergi. Austan-undir Torfajökli er stór laug, brennheit, hér um bil 4 faðmar á hvern veg. Í botninum er einlæg hella og sýður vatnið upp um bresti á hellunni. Fram-af henni eru fleiri laugar volgar. Í Reykjadölum eru svo margir hverir, að ekki verður tölu á komið, og hafa fjölgað til helminga eður meir, síðan þeir muna lengst fram, sem nú lifa. Þeir eru í grennd við Heklu og er almannamál, þeir dragi eldkraft úr fjallinu.

Við Svínhagalæk, vestanvert við bæinn í Svínhaga, eru 3 laugar ívolgar.

Sjóðheitar vatnsæðar spretta upp úr móbergi við Þjórsá, vestan-undir túninu á Kaldárholti, og að norðanverðu við Kaldárholtslæk kemur undan mýrarbrún heit vatnsuppspretta í sandlaut. Þar hefir fyr verið baðlaug.

Laugar eru tvær í Selárdal, niður-við ána; önnur að vestan, nálægt Hróaldsstöðum, en önnur þar á móts við að austan. Koma þær þar upp úr berginu, en vatnsæðarnar eru mjóar og kraftlitlar. Garður er hlaðinn í kring, og má þar lauga sig; gjöra margir það á sumrum til heilsubótar, og verður gott af.

Á Laugardal, fram-af Jökuldal, er mikið heit laug, grunn, með sandbotni. Hjá Aðalbóli, í Laugarhúsanesi, finnst og viðlíka laug. Þær eru báðar brúkaðar af fólki.

Undir Laugarfelli, norðaustur af Hafursfelli á Fella-afrétti, er laug, sem vellur upp úr kletti ca. 1/2 al. undir jarðvegi. Vatn hennar er snarpheitt (40—50° R.), mjög tært, og hefir brennusteins- og málm-keim. Laugin er stífluð nokkuð fyrir neðan uppsprettuna, og laugar sig þar jafnaðarlega gigtveikt og kláðfellt fólk, og þykir koma að góðu haldi, einkum ef laugin er drukkin jafnframt baðinu.

## II.

## EFNASAMSETNING HVERAVATNS.

Eftir rannsóknum Jos. Blacks og Mart. Heinr. Klaproths.

---

[John Thomas] Stanley: An account of the hot springs in Iceland. Transact. of the Royal Soc. of Edinburgh.

[Martin Heinrich] Klaproth: Beiträge zur chemischen Kentniss der Mineralkörper. B. II., Pag. 99.

a. Geysers Kiselsinter indeholder 1 1/2 % Lerjord og 1/2 % Jernilte.

b. Reykjahver í Ölfusi indeholder i 10,000 Dele Vand:

| | | |
|---|---|---|
| Kulsurt Natron | 1,04 | |
| Glaubersalt (svovlsurt N.) | 1,73 | |
| Køkkensalt (saltsurt N.) | 2,93 | |
| Kiseljord | 3,10 | |
| | | 8,80 |

| | | |
|---|---|---|
| Sami hver eftir Black*): | | |
| Kulsyrefrit Natron . . . . . . . . . . | 0,51 | |
| Glaubersalt (svovls. Natr.) . . . . . | 1,28 | |
| Køkkensalt (salts. Natr.) . . . . . . | 2,90 | |
| Kiseljord . . . . . . . . . . . . . . . . | 3,73 | |
| Alunjord . . . . . . . . . . . . . . . . | 0,05 | |
| | | 8,47 |
| Geysir, eftir Black: | | |
| Kulsyrefrit Natron . . . . . . . . . . | 0,95 | |
| Glaubersalt (tørt, svovls. Natr.) . . | 1,46 | |
| Køkkensalt (salts. Natr.) . . . . . . | 2,46 | |
| Kiseljord . . . . . . . . . . . . . . . . | 5,40 | |
| Alunjord . . . . . . . . . . . . . . . . | 0,48 | |
| | | 10,75 |

Klaproth mener Black har antaget, at Kiseljord var i kemisk Forbindelse med Natronet og derfor frit for Kulsyre, og altsaa ætsende.

## III.

## GEYSIR OG STROKKUR.

(Revue des deux Mondes, 15 sept. 1836. — Frorieps Notizen aus dem Gebiete der Natur-und Heilkunde, Nr. 1093. Novemb. 1836. — Marmier til de Villemain. Reykjavík, 22. júlí 1836.

Þeir eru báðir á hæð, og hæðin stendur á mýrlendi, en út í frá er að sjá svört fjöll allt um kring, svo svipurinn á landslaginu er frábærlega skuggalegur. Einu megin er að sjá Heklu-tind, snjóhvítan, og hinu megin Bláfjall; það er jökull og miklu snjómeiri en Hekla. Opið á Geysi er vítt og barmarnir huldir þykkri skán úr kísiljörð. Þessi skán skiftir sér í töflur, rétt eins og brynjan á skjaldbökunum. Þetta op er 16 metrar á breidd og 22 metrar á dýpt.

*) Transact. of the Royal Soc. of Edinb. for the year 1789. Vol. III. — Ann. de chimie. Paris, 1793.

Skammt frá Geysi er hverinn Strokkur, annað furðuverkið frá. Þar að auki eru smáhverir í hverju spori um alla hæðina, sumir eru bæði djúpir og víðir, með rósrauðum kísilmunna og himinbláum botni, aftur eru sumir svo litlir, að þeir varla ná upp úr jörðunni, og sjást ekki á öðru en reyknum, sem leggur upp um sprungurnar. Vatnið rennur út úr þeim á alla vegu og er búið að mynda steinharða skorpu á jörðunni, og gufuna úr munnunum, þar sem vatnið vellur og sýður, leggur yfir landið eins og reykjarský. Svo nú get ég vel ímyndað mjer, hvernig hinn forni höfundur Konungsskuggsjár hélt í einfeldni sinni, að allir þessir hverir væru raunar katlar, sem fjandinn ætti og syði í þeim sálir fordæmdra.

Geysir gýs ekki stöðugt á vissum tíma; það er mikið komið undir regni og vindi, og hvernig stendur á missirum. Við tjölduðum á milli hveranna, til að geta því betur athugað gosið, og biðum þess með óþolinmæði allt frá því við komum. Á daginn forðuðumst við að fara í burtu og á nóttunni vöktum við til skiftis. Þá var það oft, að vökumaður kallaði okkur úr svefni, þegar tók að verða ókyrrt í munna Geysis. Þar var að heyra dunur í jörðinni, viðlíka og skothríð úr fallbyssum, og landið skalf, rétt eins og múrbrjótar byldu á klettunum. Við hlupum þá hver um annan þveran að hæðarbarðinu, en vatnið í Geysi hækkaði og kom allt að fótum okkar á hversbakkanum, og rann svo út úr hægt og hægt öllu megin, eins og vatn úr stampi, þegar hann er hristur. Þegar við vorum búnir að bíða í 2 daga, gátum við loksins komið Strokk til að gjósa með því móti, að við veltum grjóti ofan í hann og skutum úr byssum yfir munnanum. Allt í einu

heyrðum við öskur, rétt eins og andinn í hvernum vaknaði og ætlaði að fara að hefna sín fyrir það, sem við ertum hann upp. Í sama vetfangi gaus vatnið upp með ógurlegum bylgjugangi, þeytti öllu með sér, sem við höfðum kastað í munnann, og huldi jörðina með vatnsfroðu og gufuskýjum. Vatnsstólpinn varð meir en 40 álnir á hæð. Hann var blandaður auri og steinum og sást ekki í fyrstunni fyrir reyk, en eftir sem hann hækkaði, tók hann að ljóma í sólskininu og féll svo aftur til jarðarinnar í löngum bogum, eins og gull- og silfur-ryk. Þetta gos varaði meir en fjórðung stundar (20 mín.) og tveim stundum seinna tók Geysir að æða. Afarmiklir vatnsstólpar risu í loft upp og þöndust út eins og fossandi öldur, er ljómuðu af öllum litum friðarbogans.

Svona nutum við þess yndis að sjá eitt hið mesta náttúrunnar furðuverk.

---

## VÖTN Á SANDHEIÐUM.

| | | |
|---|---|---|
| Galtarvötn. | Gedda=Gedduvötn. | Eyjavatn. |
| Svínavötn. | Styrsvötn. | Skútutjarnir. |
| Þórarinsvötn tvenn. | Gilsvötn. | Úlfkelsvatn. |

### Á KÚLUHEIÐI:

| | | |
|---|---|---|
| Eystri og vestri | Friðmundarvötn. | Mjóavatn. |
| Gilsvatn. | Galtarbólsvatn. | Þrístikla. |

Vatnskarðstjörn og tvö vötn önnur á Eyvindarheiði.

---

## HNATTSTAÐA ÍSLANDS OG FORNAR LEIÐARVÍSANIR.

Land það, er Hrafna-Flóki kallaði Ísland, sem það hefir síðan heitið, liggur á norðurhveli jarðar, sunnarlega í hafsbotni þeim hinum mikla, er gengur inn af úthafinu til norðausturs millum Grænlands og Noregs allt að ísum.

Fornmenn kváðu svo á um afstöðu þess, að úr Noregi, frá Staði, sé 7 dægra sigling í vestur til Horns á Íslandi austanverðu, en frá Snæfellsnesi, þar sem skemmst er, 4 dægra haf í vestur til Grænlands; en ef siglt er úr Björgvin rétt í vestur til Hvarfs á Grænlandi, þá muni siglt vera tylft fyrir sunnan Ísland. Af Hernum í Noregi segja þeir sigla skuli jafnan í vestur til Hvarfs á Grænlandi, og sé siglt fyrir norðan Hjaltland, svo, að því að eins sjái það, að allgóð sé sjávarsýn, en fyrir sunnan Færeyjar, svo, að sjór sé í miðjum hlíðum, en svo fyrir sunnan Ísland, að þeir hafi af fugl og hval. — Frá Reykjanesi á sunnanverðu Íslandi telja þeir 5 dægra haf til Jölduhlaups á Írlandi í suður, en frá Langanesi á norðanverðu Íslandi 4 dægra haf norður til Svalbarða í Hafsbotni, en dægursigling til óbyggða á Grænlandi úr Kolbeinsey [í] norður.

---

## KAFLAR ÚR 2 ÞÁTTUM TIL »ÍSLANDS-LÝSINGAR«.

### I.

### ÚR ÞÆTTI UM VATNSFÖLL.

#### A. VATNSFÖLL Í MÚLAÞINGI.

*Fossá* er lítil spræna á sóknamótum millum Sauðaness- og Skeggjastaða-sókna; hún rennur mót austri eftir Fossdal fyrir norðan Gunnólfsvíkurfjall og steypist fram af bjargi í sjó; þar er hár foss og beinn.

*Geysirófa* er og lítil á; hún hefir upptök sín í svo-nefndum Skörðum og Vatnadal og fellur móti austri í mörgum krókum í norðanverðan Finnafjörð.

*Finnafjarðará* fellur móti norðaustri í Finnafjarðar-botn; nokkur hluti hennar kemur úr Krókavatni á Fellsheiði og heitir þá Krókavatnsá, en hitt vatnsmagn hennar kemur framan af Hallgilsstaðaheiði sunnanverðri. — Þetta er raunar lítil á með grjótfarvegi, en verður þó ill-reið í vatnavöxtum; vöð eru á henni við sjó og á veginum á Hallgilsstaðaheiði.

*Saurbæjará,* lítil á, kemur úr Saurbæjarvatni og rennur móti norðaustri í sunnanverðan Finnafjörð.

*Miðfjarðará* hefir upptök sín á Vopnafjarðarafréttum, þar sem heita Miðfjarðarárdrög; hún rennur víðast út-undir byggð í djúpu gili og fellur móti norðaustri í Miðfjarðarbotn. Hún er víðast ströng og grýtt, og oftlega óreið mikinn hluta sumars. Nokkur vöð eru á henni undan Miðfjarðarseli og þar fyrir utan, og lögferja undan Miðfirði. Tveir fossar, beinir, eru í henni og heita Sniðfoss og Fálkafoss.

*Kverká* sprettur upp norðan-undir Arnarfjöllum og fellur í Miðfjarðará millum Miðfjarðarness-sels og Kverkártungu; þegar ofan-eftir dregur, fellur hún í djúpu gili og er þess vegna ill yfirferðar.

*Hölkná* kemur úr nokkrum smátjörnum, er heita Hölknárlón, norðan-undir fjallinu Hágangi; hún fellur og móti norðaustri, sumstaðar í nokkrum gljúfrum, og kemur til sjávar í sunnanverðan Miðfjörð, millum bæjanna Miðfjarðar og Djúpa-lækjar. Rauðhólavað er hið almennasta og óhætt, nema í vatnavöxtum; þá er betra vað nokkru neðar.

*Djúpi-lækur* er lítið eitt framar; hann kemur þar

ofan úr heiðinni og verður hart-nær óreiður í vatnavöxtum.

*Staðará* sprettur upp norðan-undir Urðarhlíð á Skeggjastaðaheiði og rennur til norðausturs; í hana fellur *Rauðá;* rennur að mestu leyti í djúpu gili; hún kemur og undan Urðarhlíð. Þar sem smá-ár þessar eru komnar saman, mynda þær á einum stað tvítugan foss, er heitir Drangafoss.

*Dalhúsaá* kemur enn undan Urðarhlíð og fellur móti norðaustri hjá Dalhúsum í *Gœsagilsá*, er kemur fram úr urðum nokkrum norðaustur af Hágangi, og rennur þaðan fyrst til norðausturs og því næst beint til hafs, sumstaðar í djúpu gili. *Hölkná* kemur úr svo-nefndu Hólmavatni og fellur til norðvesturs og norðurs í Gæsagilsá fyrir utan Dalhús; hún rennur sumstaðar í gljúfrum og eru þar 2 fossar í henni, ekki allháir. — Þegar þessar 3 síðastöldu ár eru komnar saman, heita þær: *Bakkaá;* fellur hún úr því um sléttlendi út að sjávarsandi, gjörir þar á sig krók til vesturs meðfram sandinum og kemur þar saman við Staðará (með Rauðá) og fellur svo um einn ós til sjávar. Miklar líkur eru til, að Bakkaá hafi fyrrum fallið þar beint til sjávar, fram yfir sandinn, sem nú er krókurinn á farveginum. — Austar er *Hafnará,* litið vatn; hún rennur úr Kríutjörnum á Hafnarheiði, fyrst til norðurs og síðan til vesturs, og kemur til sjávar í austanverðan Bakkafjörð.

*Viðvíkurá* kemur bæði úr Krókavatni (og heitir þá Þverá) og úr Viðvíkurvatni; hún rennur til norðausturs um Viðvíkurdal til sjávar.

*Stapaá* er lítil spræna og fellur til austurs á

sveitamótum millum Viðvíkur og Strandarhafnar fram af bergi í sjó niður.

*Selá* rennur mót austri út Selárdal og kemur til sjávar í norðanverðan Núpsflóa nokkuð innar en fyrir miðri norðvesturströnd Vopnafjarðar, það er allmikil á, bæði ströng og stórgrýtt.

Sunnar og innar er *Vesturá,* er rennur um Vesturárdal norðaustur í Skógalón; er það heldur lítil á og ekki ströng. Í henni er nokkur silungsveiði.

*Hofsá* kemur af Tunguheiði og rennur út Fossdal og Hofsárdal, norðaustur í innanverðan botn Vopnafjarðar; er það allmikil á, en ekki ströng né stórgrýtt. Í hana renna sunnan af fjöllum þessar smáár: *Litlá, Selá, Egilsstaðaá, Þverá, Sunnudalsá* og *Tunguá,* er aðskilur Smjörvatnsheiði og Tunguheiði. Að vestanverðu renna í hana *Þuríðará* og *Rangá.*

Út-við sjó er Hofsá óreið fyrir dýptar sakir og er þar á henni lögferja frá Syðri-vík, og fleiri ferjur eru þar hafðar, til að mynda á Hofi. Yzta vað á Hofsá er ekki langt frá ferjustaðnum og heitir Pálmagarðsvað; er það bæði breitt og djúpt, þegar hásjávað er, en gott undir. Foss er í ánni hjá bænum Fossi, og er mælt, að lax leggist undir hann, en ekki verður að því komizt að veiða hann þar. Aftur er nokkur silungsveiði víða í ánni. Farvegur hennar er breiður og sléttur, þegar út-eftir dregur, og á vorum gengur hún nálega yfir allt sléttlendi kringum sig.

*Gljúfrá* kemur ofan af Vindfellsfjalli og rennur til norðurs í innanverðan Vopnafjörð, á suðurströndinni. Hún fellur, þegar niður-eftir dregur, í miklu gili, svo ófært er yfirferðar, nema þar sem vegurinn

er; er þar einstígi bratt og illt með burð. Áin er ströng og stórgrýtt, en ekki vatnsmikil, nema í leysingum eða rigningum. Fossar tveir eru stærstir í henni: Efri-foss, skammt fyrir neðan fjall, hér um bil 8 faðma hár, beinn, en ekki breiður, og Neðri-foss, skammt fyrir neðan veginn, á að gizka 10 faðma hár, ekki fullkomlega beinn, en mjög brattur.

*Dalsá* fellur til norðurs eftir Eyvindardal, litlu utar en i miðjan Vopnafjörð sunnanverðan, og verður úr þrem kvíslum, er koma af fjöllum ofan; þegar dregur að sjó, er mikið gil að henni og er hún þar ströng og ill yfirferðar, þegar hún er í nokkrum vexti.

*Fagradalsá* er yzt sunnan-fram við Vopnafjörðinn; hún rennur til norðurs eftir endilöngum Fagradal í sjó fram og er ekki vatnsmikil, en bæði ströng og stórgrýtt.

Þrjú stórvötn falla til sjávar í Héraðsflóann út yfir hina svo-nefndu Héraðs-sanda, sem þar liggja fyrir öllu landi fjalla á millum, meir en tvær mílur vegar. Vestust er *Jökulsá á brú*. Þetta stórvatn er nálægt 18 mílum á lengd og fellur til norðausturs alla leið frá jöklum til sjávar. Aðal-áin verður úr 5 jöklum, sem allar spretta fram undan rótum hins eystra falljökuls á norðurhlið hins mikla Vatnajökuls, til vestur-útsuðurs af Snæfelli. Hið vestasta þessara 5 jökulvatna er:

a. *Sauðá,;* hún rennur til austur-landnorðurs, og fellur í Jökulsá neðst þeirra; hún er sjaldan reið, og er því hafður dráttur á henni til að ferja afréttarfé á sumrum inn-yfir hana á Brúaröræfi.

b. *Kringilsá* kemur næst Sauðá fyrir ofan Brúaröræfi og fellur í sömu átt til Jökulsár; tungan

fyrir ofan hana heitir Kringilsárrani; er þar efst aurgarður um þveran ranann og vatn fyrir ofan, er liggur inn-undir jökulbrúnina, og fellur þaðan lítil á, nafnlaus, í Kringilsá.

c. *Gljúfurkvísl* kemur því næst, fyrir ofan Kringilsárrana; hún er hið versta vatn, bæði mikil og fúl, og fellur skjótt í Jökulsá; er þar ekki milli þeirra, utan oddi einn, er gengur fram-af jöklinum. Því næst kemur

d. *Jökulsá* sjálf, og er þar lítið vatn að reikna í samanburði við hin önnur jökulvötn, er í hana falla. Austust er svo-kölluð

e. *Jökulkvísl;* það er mikið vatn og fellur til norðurs í Jökulsá; tungan millum þeirra heitir Maríutungur.

Þegar þessi 5 jökulvötn eru komin saman, falla þau sem fyr segir til norðausturs ofan af fjöllum, eftir Brúardal og Jökuldal endilöngum og svo út millum Jökulsárhlíðar að vestan og Tungunnar að austan, fram til sjávar vestarlega á Héraðssöndum. Á þessari leið fellur enn fremur allmikið bergvatn í Jökulsá, því margar þverár streyma í hana af fjöllum ofan beggja megin að, og skal nú telja þær eftir röð neðan að og upp-eftir Jökulsárdal.

a. Að vestan:

Tvær ár falla úr Hlíðarfjöllunum austur í Jökulsá, nl. *Kaldá,* er rennur millum bæjanna Sleðbrjóts og Fögruhlíðar, og *Laxá,* er kemur úr Smjörvötnum á Smjörvatnsheiði og rennur utanvert við túnið á Fossvelli. Í henni er fagur foss, sem bærinn dregur nafn af. Báðar þessar þverár eru straumharðar og stórgrýttar, og verða oft óreiðar í leysingum og stór-

rigningum. Á Jökuldalnum eru þessar ár: *Ytri-deild* og *Innri-deild* eru tvær ómerkar smáár neðst í dalnum; rennur hin síðari niður í Jökulsá fyrir vestan bæinn á Haukstöðum.

*Hvammá* er og vatnslítil; hún rennur fyrir vestan völlinn á bænum Hvammá.

*Svelgsá*, sem kemur því næst, er einnig lítil og ómerkileg.

*Staðará* fellur ofan fyrir vestan völlinn í Hofteigi; hún steypist fram-af fjallinu í þrem fossum, og er sá hinn neðsti bæði hár og fagur, og fellur á móbergi, með fögrum graskinnum umhverfis. Því næst kemur *Teigará,* fyrir innan hinn forna hofteig; hún er mjög stórgrýtt og fellur í háum fossi fram af heiðarbrúninni. Það er og á móbergi, og nokkuð stöllóttu, en hæðin er á milli 60 og 70 faðma.

*Sauðá* rennur fyrir vestan Hjarðarhaga, og næst henni *Garðá* (þar sem bærinn stóð fyrrum); eru þær báðar vatnslitlar, en stórgrýttar og falla í mörgum smáfossum. Þá koma: *Yzta-Rjúkind, Mið-Rjúkind* og *Fremsta-Rjúkind,* og er hin fyrst-talda bæði vatnsmikil, ströng og stórgrýtt, og allar eru þær með mörgum fossaföllum ómerkum. *Garðá*, vatnslítil, en ströng og smáfossótt, rennur hjá Skjöldólfsstöðum.

*Gilsá* er fyrir vestan Skjöldólfsstaði, vatnsmikil og óttalega ströng og stórgrýtt; á henni og Yztu-Rjúkind haldast aldrei vöð ári lengur, og eru þær ætíð hættuleg vötn.

*Hnappá* er millum Arnþórsstaða og Hákonarstaða og *Hnúksá* nokkru vestar, báðar með mörgum smáfossum.

*Kringilsá*, lítil, og *Búðará*, lítil og ófossótt, eru báðar millum Hákonarstaða og Eiríksstaða.

*Þverá* fellur millum Eiríksstaða og Brúar; hún er mikið vatn og stórgrýtt, og er á henni dráttur á sumrum.

*Garðá*, rétt fyrir innan Brú, er lítið vatn.

*Laugarvallaá* fellur um Laugarvalladal; svo kemur *Reykjará* og svo *Vesturdalsá* í Vestur-árdal. Eru þá bergvötn þrotin að vestanverðu og kemur þar næst Sauðá, sem áður er nefnd. (25 ár).

b. Að austan falla þessi bergvötn í Jökulsá:

*Hvammsá* er neðst, hér um bil 3 fjórðunga mílu fyrir innan Trébrú; lítil á og ómerk.

*Garðá* rennur við túnvöllinn á Giljum, neðsta bæ austan-fram á Jökuldal; lítil á.

*Sandá* og *Teigará* renna millum Gilja og Skeggjastaða, þær eru stórar og strangar í rigningum og snjóaleysingum.

*Garðá* er næst Skeggjastöðum og því næst *Húsá*, er skilur land milli Skeggjastaða og Hefilsdals; þær eru báðar viðlíka mikil vötn og hinar næst á undan.

*Hefla* er innan-við Hefilsdalstún, mikið vatn og stórgrýtt; á henni er hafður kláfur á sumrum.

*Valagilsá* skiftir löndum milli Hefilsdals og Ásgeirsmerkis, og fyrir innan merki koma: *Tregagilsá* og *Kambagilsá*; allar þessar þrjár ár falla í nánum smáfossum ofan af fjallsbrún og niður í Jökulsá, og eru vöð á þeim breytileg og heldur ill.

*Sauðá, Leiðará* og *Garðá*, næst Klausturseli, eru allar litlar ár, en mjög grýttar.

*Fossá* kemur næst við Klaustursel, með mörgum smáfossum; þá *Víðirdalsá*; báðar vatnslitlar, en grýttar.

Þá *Eyvindará,* sem fellur eftir Eyvindardal; vatnsmikil og stórgrýtt. Þá kemur *Sauðá,* smáfossótt og vatnslítil, og *Hölkná,* mjög stórgrýtt og vatnsmikil, með hvikulum og illum vöðum; liggja báðar millum Bratta- (Brettings)gerðis og Hrafnkelsdals. Þá kemur *Hrafnkela* sunnan Hrafnkelsdal, býsna-mikið vatn, og fellur á sléttum söndum út í Jökulsá; í hana falla inn-á dalnum *Glúmstaðaá, Þuríðarstaðaá* og *Grjótá.*

*Dysjará, Smjörtungudalsá* og *Sauðá* falla ofan af fjallinu milli Hrafnkelsdals og Jökuldals í austanverða Jökulsá, og eru þær innstar þessu megin.

Allar þessar 25 ár, sem nú voru taldar, hafa upptök sín til og frá á fjallgarðinum millum Fljótsdalshéraðs og Jökuldals, og koma úr lækjum, lindum, tjörnum, smávötnum og flóaflesjum þar á heiðinni.

Af þessu má ráða, hvílíkt vatnsmagn vera muni í Jökulsá, enda er hún eitthvert hið mesta stórvatn á Íslandi. Hún er hvergi reið, að kalla má, milli fjalls og fjöru, nema ef telja skyldi vað undan Hofteigi, sem raunar er allgott, ef vatnsmegnið væri ekki svo fjarskamikið, og má vel hleypa það, þegar áin er í sem minnstum vexti. Að vísu er hún og stundum riðin á einstöku stöðum, þegar út eftir dregur, millum Jökulsárhlíðar og Tungunnar, en aldrei samt nema þegar hún er sem allra minnst, og varla má það fært kalla. Mest yfirferð yfir ána er á trébrú þeirri, sem byggð hefir verið yfir hana á almennan kostnað. Hún er skammt niður-frá Fossvelli, innsta bæ í Jökulsárhlíð og er lögð yfir klettagljúfur 24 álna breitt. Þegar áin er í meðalvexti er þar 10 faðma hátt undir brúna neðan frá vatni, og vatnið þar undir hér um bil 15 álnir, og fleygist það þó þar fram með hinum mesta

ofsastraumi, eins og kólfi sé skotið fram á milli bjarganna. En þegar mikill vöxtur er í ánni og jakaferð, fyllir hún því nær gljúfrið og nemur upp undir brúna, og við hefir borið, að hún hefir brotið brúna af sér, og seinast 1625. Brúin, sem nú er á Jökulsá, var byggð 1819, og er hún sæmilega sterk og 3 álna breið.

Auk þessarar brúar eru kláfar á köðlum, eða svo-kallaðir drættir, hafðir á ánni á fimm stöðum á Jökuldalnum, frá bæjunum Hjarðarhaga, Arnþórsstöðum, Hákonarstöðum, Brettingstöðum og Brú. Verður þeim svo vel viðkomið, af því áin fellur þar á flestum stöðum í djúpu og þröngu klettagljúfri. En þegar dregur út millum Jökuslárhlíðar og Tungunnar, er víðast hvar að henni flatlendi og sléttir sandar, og verða þar á fáeinum stöðum hafðar ferjur. Hin helzta þeirra er nú sem stendur undan Sleðbrjóti. Nokkrum sinnum hefir stórvatn þetta breytt farveg sínum þar sem það fellur í sæ, og rifið sig á ýmsum stöðum út í gegnum héraðssandana. Eru þar fyrir landi miklar grynningar og sandrif úti fyrir, og árósinn ekki skipgengur, sökum straumhörku.

*Lagarfljót* fellur í norðaustur beint til sjávar, eftir miðju Fljótsdalshéraði. Það byrjar, með því nafni, inn-við svo-kallaðan Fljótsbotn, inn-í Fljótsdal, skammt fyrir neðan Langhúsamúla, er gengur fram millum Norðurdals og Suðurdals og liggur milli sveitanna Fella og Tungu (Hróarstungu) að vestan og Valla, Eyða-þinghár og Hjaltastaða-þinghár að austan. Það er raunar langt og djúpt stöðuvatn, framan eður innan frá Fljótsbotni og þangað til yzt fyrir Fellum, þar sem það tekur að mjókka og koma nokkur straumur

í það, en þar fyrir innan er það 500 til 800 faðma breitt og á einum stað allt að 1200 faðma, og víða hvar hyldjúpt, 30 til 40 faðmar, og sumir segja jafnvel 80 eða 100 á sumum stöðum, þótt það, eftir landslaginu til að geta, sé heldur ótrúlegt. Þegar dregur út með Tungunni, mjókkar það enn meir, og fellur þar spölkorn í hörðum stokk eftir gljúfri fram að Kirkjubæjarfossi; þar er flúð um þveran farveginn og hryggur eða sker á miðri flúðinni og klýfur vatnið í tvo fossa; er hinn eystri þeirra beinn, en hinn vestri nokkuð aflíðandi. Breiddin yfir báða fossana er hér um bil 50 faðmar og hæð þeirra nálægt 12 föðmum. Í Fljótsdal er ekkert vað á Lagarfljóti, en í Fellum er eitt vað utarlega, sem heitir Einhleypingsvað, og út með Tungunni, fyrir ofan fossinn, eru 2 vöð, allgóð yfirferðar, þegar ekki er í því vöxtur, og heita þau Steinavað og Hesteyrarvað; en úr því kemur út fyrir fossinn, er fljótið alls staðar óreitt. Lögferja er á fljótinu frá Ekkjufelluseli, utarlega í Fellum, skammt fyrir ofan Einhleypingsvað, og önnur frá Kirkjubæ, fyrir neðan fossinn; er fljótið þar 5 til 6 faðma djúpt í meðal-vexti og ekki mjög strangt, og þaðan út til sjávar geta verið 3 ferjustaðir, og eru þeir stundum notaðir. Ferjur eru og á fleirum stöðum, t. a. m. undan bæjunum Rangá og Straumi, en ekki eru þar fleiri vöð né lögferjur en nú var talið. Útgrynni er mikið fyrir Lagarfljótsmynni, líkt og Jökulsá, en þó má með flæði leggja smáskipum inn um ósinn, og er það stundum gert.

Nú skal segja hverjar ár renna í Lagarfljót og hvernig allt það vatn dregst saman, sem þar kemur til sjávar á einum stað.

*Sandá* heitir á á Fljótsdalsheiði; hún kemur úr Álftavatni þar á heiðinni, fyrir ofan fremri enda Fellasveitar, og rennur til norðausturs, fyrir austan Miðheiðaröldu, út í Stóra-Sandvatn; úr því vatni fellur *Rangá*, mikið skáhallt og krókótt út og austur af heiðinni og svo ofan í Lagarfljót; hún skilur Fellasveit og Hróarstungu, og er lítið vatn og ekki mjög straumhörð; eru og á henni góð vöð og verður hún sjaldan óreið. Þessi á er hið yzta vatn, sem fellur að vestanverðu í Lagarfljót.

*Teigará* ytri, *Ormstaðaá* og *Þorleifará* eru allar í Fellum og falla beint niður af heiðarbrún í fljótið; þær hafa upptök sín úr flóadrögum á heiðinni og eru vatnslitlar, en straumharðar.

*Hrafngerðisá,* áður kölluð *Teigará* fremri og Hrafnsá, skilur Fellasveit og Fljótsdal; að henni er gljúfragil fyrir neðan heiðarbrún og ekki nema eitt vað á henni niður-við fljótið.

*Hengifossá* kemur norðan af Fljótsdalsheiði og rennur suður eftir henni, þangað til hún fellur ofan af brúninni millum bæjanna Brekku og Mela í feiknaháum hengifossi með flughömrum allt í kring, og rennur síðan í djúpu gljúfragili ofan á undirlendi í Jökulsá, skammt fyrir innan Fljótsbotninn. Fossinn er kallaður Hengifoss, 28 faðma hár, og hefir hann þó mikið lækkað, og að sögn manna allt að þriðjungi frá því sem hann var í fornöld.

*Bessastaðaá,* þar skammt fyrir innan, kemur vestan af Fljótsdalsheiði, úr svo-kölluðum Gilsárvötnum, og má af því ráða, að hún hefir einhvern tíma í fornöld verið kölluð Gilsá. Hún rennur út-austur eftir heiðinni, þangað til hún fellur austur af henni í

feikna-djúpu klettagili, rétt fyrir innan Bessastaðabæ, niður á sléttlendið og fram eftir því í Jökulsá.

Allar þessar 6 næsttaldar þverár eru strangar, en mjög vatnslitlar, nema í stórrigningum eður snjóaleysingum á vordag, og verða því-nær aldrei óreiðar.

*Jökulsá í Fljótsdal* kemur undan Vatnajökli fyrir framan Snæfell, rennur fyrir austan það um breiða sandaura og síðan um grjóteyrar, unz hún fellur út í Norðurdalinn ofan grunnt gljúfragil, og eftir dalnum út-fyrir Múlafjall, er skiftir Fljótsdalnum í tvo dali, Norðurdal og Suðurdal, og kemur þar saman við *Kelduá,* sem rennur úr vatni nokkru fram-á Múlaöræfum, rétt við jökulinn, og er hann þar nýlega hlaupinn fram í vatnið, svo áin, sem fyrrum var bergvatn, er nú jökulvatnsblandin, þegar líður fram á sumar. Hún rennur fyrst á grjóteyrum norður eftir Múlaöræfum, þangað til hún fellur ofan af þeim um gljúfragil, með mörgum smáfossum, út í Suðurdalinn, og eftir honum, þar til hún mætir Jökulsá, sem fyr segir, skammt fyrir utan Múlahornið. Renna þær úr því saman í mörgum kvíslum út-eftir Fljótsdalnum og falla í Lagarfljótsbotn á breiðum leirum skammt fyrir framan Brekku, og er úr þeim báðum ám aðalvatnsmegnið í fljótinu. Þær eru báðar vatnsmiklar og straumharðar, og illar yfirferðar langt fram á sumar, nema á ferjum. Þær renna á sléttum eyrum eftir dölunum, þangað til þær koma saman, en úr því á söndum og leirum út í fljótið og eru þar víða fullar af sandbleytu. Á Jökulsánni er bezt vað, þegar hún er mikil, rétt fyrir utan Múlahornið, en Kelduáin breytir vöðum sínum á hverju ári; þó er stöðugt vað undan Víðivöllum ytri, kallað Langa-brot. Hér að-

auki er vað á þeim báðum saman niður-frá Skriðuklaustri, og verður það ófært í vatnavöxtum.

*Fellsá* hefir upptök sín suður-á Sviðinhornahraunsöræfum og rennur þaðan í norður, austan um Fellið (Kiðjafell), fossandi í gljúfragili, og fellur í Kelduá fyrir utan síðast-nefnt fjall; á henni er hafður kláfur (dráttur) til [að] koma geldfé yfir Fellið á vorum í vatnavöxtum.

*Gilsá* kemur sunnan af fjallgarði þeim, sem liggur millum Skóganna (Hallormsstaðarsóknar) og Skriðdalsins, og rennur norður fjallið ofan í Gilsárdal og á eyrum eftir dalnum, unz hún fellur fram úr honum í þröngu og djúpu klettagili út í Lagarfljót, rétt inn-við Fljótsbotninn.

Engin önnur teljandi vötn falla í Lagarfljót að vestan-fram né að innan úr Fljótsdalnum. En að austan-fram tekur það við tveim vatnasöfnum úr Grímsá og Eyvindará, sem nú skal verða sagt.

*Öxará* rennur úr Öxarvatni, er liggur í Öxarhrauni, og rennur út Öxarheiði ofan í Skriðuvatn í Víðirgröf, sem er innsti hluti Suðurdals, er gengur inn-af Skriðdal austanvert við Þingmúlafjall. Í hana falla tvær ár, sem heita *Yxnagilsár;* koma þær báðar af Breiðdalsheiði og renna til vesturs í Öxará fram á fjalli.

*Forviðará* heitir lítil á, sem fellur niður af fjalli innan-til í Skriðuvatn; í henni er einhver hæsti foss á Íslandi.

*Vatnsdalsá* rennur úr austri eftir Vatnsdal og fellur einnig í Skriðuvatn.

*Múlaá* rennur til norðurs úr Skriðuvatni út Suðurdal.

*Stutta-dals-á* fellur úr austri eftir Stutta-dal niður í Múlaá.

*Geitadalsá* kemur úr Líkárvötnum, er liggja suðaustan-undir Bratthálsi, (sem skilur Fljótsdals- og Skriðudals-öræfi); hún fellur til norðurs eftir öræfunum ofan í Geitdal, er gengur inn af Skriðdal vestanvert við Þingmúlafjall, og kemur saman við Múlaá á dalamótum, fyrir utan Þingmúla; heita þær úr því *Grímsá*. [Hún] rennur út Skriðdal og Völlu og fellur í Lagarfljót niður-undan Ketilsstöðum, kippkorn fyrir utan Vallanes. Hún rennur fyrst um eyrar eftir dalnum, þar til Gilsá kemur í hana; er þar foss í þeim báðum, og rennur hún þá um stund í gljúfragili og síðan í einu lagi á eyrum, þar til Nesin taka við og hún skiftist í kvíslar, áður en hún fellur út í fljótið, sem fyr segir. Vöð eru á henni á ýmsum stöðum, en standa sjaldan lengi á sama stað. Lögferja er engin á ánni, en þó eiga bændur ferjur á henni hér og hvar.

*Brúðardalsá* er lítil fjalldalsá, sem rennur eftir Brúðardal ofan í Jóku í Jórudal, (sem almennt er kallaður Þórudalur eður Þórdalur). Því næst rennur Jóka fram um dalinn, vestur í Grímsá.

*Eyrarteigsá* kemur úr Hallsteinsdal. *Þórisá* úr Ófærudal og *Hvíná* ofan úr fjalli, á sóknamótum milli Þingmúla- og Vallaness-sókna, og falla allar vestur í Grímsá.

*Gilsá* kemur úr Hjálpleysuvatni á Hjálpleysudal, sem liggur upp millum fjallanna Hattar og Sandfells, og fellur einnig til vesturs í Grímsá.

Enn fremur falla margir lækir úr Ketilstaðahálsi að vestanverðu, og kalla menn 3 þeirra ár, nefnilega

*Grjótá, Beiná* og *Höfðaá;* koma nokkrir þessara lækja saman í svo-kallaða *Kaldá*, og falla öll þessi smávötn í Grímsá, nema Höfðaá ein, sem er yzt og fellur í Lagarfljót.

*Eyvindará* kemur úr svo-kölluðum Reyðarfjarðardölum, sem liggja til suð-austurs, inn millum Ketilstaðaháls og Gagnheiðar, og fellur hún í Lagarfljót millum Vallaness og Eiðasókna. Hún verður úr *Tunguám tveim*, er koma niður af fjallinu millum Héraðs og Eskifjarðar og renna eftir Tungudölum, og úr *Slenju*, sem kemur úr Slenjudal, er liggur beint í austur til Mjóafjarðarheiðar. Heitir dalurinn úr því Eyvindardalur og áin Eyvindará, og falla þar enn í hana *Grjótár tvær*, báðar niður af Gagnheiði, og eru það litlar þverár.

*Miðhúsaá* fellur enn í Eyvindará, næstum beint af fjalli ofan, þar sem mætast Hálsar og Gagnheiði; Þverá þessi er vatnslítil, nema í leysingum á vordag, og er í henni foss einn upp-í hlíðinni, kallaður Gufufoss.

Fleiri vötn en nú hafa verið nefnd, falla ekki í Lagarfljót, og eru það alls 38 ár með 42 nöfnum.

*Selfljótið* er, sem áður var sagt, hið austasta, sem fellur til sjávar á Héraðs-söndum. Það rennur nærfellt samsíða Lagarfljóti út eftir Hjaltastaða-sókn og skiftir henni í tvo hluti, Austur- og Vestur-(Norður)-byggð. Það verður af Núpsá og Gilsá, og er fyrst kallað Selfljót þar sem þær koma saman, og rennur í sjó undir Ósfjalli; það kallar Landnáma Una-ós. Það er alls staðar lygnt og með linum, svörtum sandbotni, og er það víða riðið á vöðum; þó eru til á því ferjur. — Allar ár, sem falla í Selfljótið, eru þver-

ár og koma úr fjallgarði þeim, sem gengur út fyrir austan Fljótsdalshérað, frá suðvestri til norðausturs, og renna þær skáhallt ofan fjöllin til norðvesturs fram í fljótið, sem nú skal verða sagt.

*Gilsá* er innst; hún rennur úr Vestdalsvatni, sem liggur efst upp-á fjalli, nokkuð utar en Miðhúsa-á, og eftir Gilsárdal ofan, fyrir sunnan Gilsárteig, og svo út á við í Selfljót. Tveir fossar eru í henni og heitir hinn neðri Nikurfoss. Hún er vatnsmikil og ströng, þegar hún er í vexti.

*Núpsá* hefir upptök sín á Tóarfjallvegi og fellur ofan-eftir Hálsum, fyrir utan Hjartarstaði, niður í sunnan-vert Selfljót. Foss er í henni fyrir ofan Hjartarstaði, sem heitir Svarti-foss. Hún er ekki vatnsmikil með jafnaði.

*Hurðarbaksá* sprettur upp upp-á fjalli, skammt fyrir utan Núpsá, og fellur fyrst niður-eftir Hálsum, og því næst skáhallt út og ofan í Selfljót, innarlega í Hjaltastaða-þinghá.

*Staðará* sprettur upp efst í búfjárhögum niður-af Botnsdalsfjalli og rennur skáhallt út og ofan í Selfljót.

*Hrísá* og *Vallará* hafa og upptök sín í búfjár-högum, fyrir neðan *Bjarglandsá,* og koma saman neðarlega í byggðinni; heita þær úr því *Gerðisá,* er rennur í Selfljót. — Allar þessar þverár eru lítil vötn.

*Hölkná* hefir upptök sín í Botnsdal og fellur í Bjarglandsá, neðan-til við Hraundalsmynni.

*Bjarglandsá* hefir upptök sín undir Hraundals-varpi, rennur ofan endilangan dalinn og takmarkar Sandbrekku-afrétt allt að neðan, og fellur seinast í Selfljót; hún er stærst vatnsfall í Hjaltastaða-þingá,

að fráteknu Selfljóti sjálfu, og er bæði straumhörð og stórgrýtt, og ill yfirferðar; þó eru víða vöð á henni, en ferjum verður ekki við komið, sökum straums og stórgrýtis. Í gljúfri einu niður-við byggðina er trébrú á henni, gjörð á líkan hátt og brúin á Jökulsá, en miklum mun minni og veikari.

*Sandá* rennur úr Sandadal ofan þvera Sandabrekku-afrétt; hún fellur að utanverðu í Bjarglandsá.

*Jökulsá,* er hið yzta vatnsfall austan fram í Héraðinu; hún rennur úr Eiríksdal ofan millum Hrafnabjarga- og Sandabrekku-afrétta, fram í Selfljót; vatnið í henni er jökulblandið bergvatn. — Alls eru það 10 ár, sem falla í Selfljótið.

*Njarðvíkurá* er lítið vatn; hún verður til úr lækjum, sem falla hingað og þangað úr fjöllunum í Njarðvík, og er ekki meira en rúmlega í hné, þar sem hún fellur til sjávar, þegar hún er ekki í vexti.

*Fjarðará* fellur í innanverðan Borgarfjörð, og verður einnig úr mörgum fjall-lækjum; hún er bæði straumhörð og býsna-vatnsmikil og getur orðið ófær í vatnavöxtum; bezt vað er á henni undan Desjarmýri. Sagt er, að í fornöld hafi skipum verið lagt í Fjarðarármynni; heitir þar Jökulsárhöfn, og sér enn tóft við ána, sem mælt er að sé hróf. Nú er árósinn 10 til 12 feta djúpur með stórstraumsflóði.

*Brúnavíkurá* fellur ofan af fjöllum til norðausturs í innanverða Brúnavík.

*Breiðuvíkurá* kemur úr Gæsavötnum fyrir innan Breiðuvíkurstafn og rennur til austurs í innanverða víkina, á sóknamótum millum Desjarmýrar- og Húsavíkur-sókna; hún er einart mikil í rigningum, og er

bezt vað á henni skammt frá sjó millum bæjanna Stóru- og Litlu-Breiðuvíkur.

*Herjólfsvíkurá* kemur undan fjallgarðinum og klýfur víkina í sjó út; hún er sögð vaðlaus.

*Húsavíkurá* verður úr smá-uppsprettum inn-undir Víkurstafni og rennur til austurs eftir Húsavík beint í sjó út; hún er ekki vatnsmikil, en ströng og stórgrýtt, og er vað á henni undan Dallandi og annað nokkru innar. Í henni og Breiðuvíkurá hefir stundum veiðzt nokkur silungur.

Í Loðmundarfirði eru þessar ár:

*Fjarðará* kemur [úr] stöðuvatni upp-á svo-kallaðri Tó, og fellur í 2 fossum (hér um bil 10 faðma háum) niður svo-nefnd Klif, i gljúfragili, og því næst út-eftir Bárðarstaðadal, fram um Arnarfoss, 3—4 faðma háan, og út-eftir sveitinni til sjávar, nokkuð austar en miðfjarðar. Hún er oft vatnsmikil, en verður samt sjaldan óreið; Steinsvað heitir á henni millum Sævarenda og Klyppstaðar, og víðar má ríða hana á brotum. Í hana falla austan- eða norðan-fram:

*Norðdalsá*, sem sprettur upp undan varpinu á Norðdalnum millum Herfells og Miðfells og er fyrst ströng og stórgrýtt, en síðan lygn í dalnum, þar til hún fellur fram úr honum í gljúfragili, niður fyrir 12 álna háan foss (Norðdalsárfoss), og síðan á sléttu fyrir framan túnið á Klyppstað ofan í Fjarðará. Á henni er Kirkjuvað, fram undan Klyppstað.

*Kirkjuá* kemur undan jökulbrúninni á Miðdalsvarpi millum Karlfells og Miðfells, og fellur eftir Miðdal og fram úr honum í gljúfragili, ofan-fyrir 7—8 faðma háan foss, gegnum túnið á Klyppstað í Fjarðará, og hefir oft gert þar hinn mesta skaða á túninu

með grjót- og sand- áburði (1815 eða 16 tók hún þar $^{1}/_{3}$ af töðuvelli og hafði nær tekið af kirkjuna).

*Gunnhildará* kemur innan af Húsavíkurheiðarvarpi og rennur til suðurs í Fjarðará; hún er ekki vatnsmikil, en straumhörð og víða með gljúfrum.

Sunnan-fram renna í Fjarðará þessar smáár: *Þjófá,* innst á Bárðarstaðadal; þá *Hrófadalsá;* þá *Miðmundaá;* þá *Melá,* fyrir utan Arnarstaði; þá *Hofsá,* móts við Klyppstað, og *Húsá,* fyrir innan Sævarenda. Þær hafa allar upptök sín í Suðurfjalls-brúninni.

*Hrauná* er hin stærsta og versta þverá í Loðmundarfirði; hún sprettur upp í Hraundal fyrir innan Mjósund og nokkrir smálækir falla í hana Kálfafellsmegin og *Skúmhattará* hinu-megin, á fitjunum fyrir ofan bæjarbrún í Stakkahlíð; þaðan fellur hún ofan með Loðmundarskriðu (Stakkarhlíðarhrauni) innanverðu í sjó fram. Hún er bæði ströng og stórgrýtt, vatnsmikil og vaðlaus að kalla, á alfaravegi. Hrauná ytri, lítill þverlækur, er þar skammt fyrir utan, og renna ekki fleiri ár í norðanverðan fjörðinn.

Fyrir sunnan fjörðinn er *Hjálmá* hið helzta vatn. Drög hennar liggja úr urðum fram-á Hjálmadalsheiði, og rennur hún eftir Hjálmadal og fram úr honum í smáfossóttu stórgrýtis-gljúfragili til sjávar. Eitt vað er á henni, litt fært fyrir streng og stórgrýti. Út-við landsenda á ströndinni eru enn fremur margir smálækir og má þar nefna *Stórfiskjará* yzta.

Í Seyðisfirði eru þessar ár:

a. Norðanfram.

*Selstaðaá* er yzt; hún rennur til suðausturs í fjörðinn eftir Kolstaðadal millum Brimnessfjalls og Grýtufjalls.

*Vestdalsá* rennur í austur til sjávar, eftir Vestdal, millum Vestdalsafréttar og Bjólfsfjalls; í hana falla 2 litlar þverár.

*Stafdalsá* rennur eftir Stafdal, millum Bjólfsfjalls og Stafdalsfells í *Fjarðará,* sem hefir upptök sín á Gagnheiði og rennur til norðausturs eftir Fjarðardal í fjarðarbotninn.

b. Sunnanfram:

*Sörlastaðaá* rennur milli norðurs og norðausturs eftir Sörlastaða- eða Hánefsstaða-dal, sem liggur milli Strandarfjalls og Snjófjalls; hún fellur í gljúfragili þegar að sjó dregur, og bæði í henni og Vestdals- og Fjarðar-ám eru nokkrir stórfossar, hér um bil 6 til 10 faðma háir, er falla fram af þverhnýptum björgum.

*Austdalsá* fellur í sömu átt eftir Austdal, millum fjallanna Flanna og Sandfells.

*Sandár* tvær, smáar, eru yztar og falla ofan í sjó millum Sandfells og Skálanessbjargs.

Í Mjóafirði eru þessar ár:

*Afréttar-ár* tvær eru smálækir yzt utan í fjöllunum, norðan-fram á svo-kallaðri Dalsafrétt.

*Dala-á* rennur til austurs í sjó fram eftir Daladal millum Flatafjalls og Akurfells; hún er vatnsmikil og ill yfirferðar.

*Steinnessdalsá* rennur til suðausturs í sjó fram eftir Steinnessdal millum Akurfells og Tóarfjalls; hún er ekki mjög mikil, en því nær vaðlaus.

*Hofsá* kemur úr Hofsdal, millum Goðatinds og Rimatinds, og rennur að mestu leyti í gljúfragili; er þar í henni hár foss, sem steypist fram af þvernhýptu bjargi. Hún er ströng en ekki vatnsmikil.

*Brekku-á* rennur beint til sjávar eftir Brekkudal, milli Rimatinds og Ekrutinds; hún er lítil.

*Hesteyrardalsár,* ytri og innri, koma úr Hesteyrardölum, milli Ekrutinds og Miðfjalls, og Miðfjalls og Skógafjalls, og renna beint í sjó niður; báðar litlar ár.

*Króardalsá,* lítil á, kemur úr Króardal, milli Ófeigsfjalls og Hvannstaðafjalls, og rennur í sjó skammt frá fjarðarbotni.

*Þverár* tvær, og innar tvær *Barnár,* allar mjög litlar, renna norðan-megin í *Fjarðará,* sem hefir upptök sín í litlu vatni á Mjóafjarðarheiði og rennur til austurs eftir Fjarðarárdal út í fjarðarbotninn.

Sunnan-fram í Mjóafirði eru þessar ár:

*Prestagilsá* er innst; þá *Hvítá;* þá *Skolleyrará;* allt smáár; þá *Árnessá,* sem kemur ofan Árnessdal, milli Mjóatinds og Súlu og rennur í norður til sjávar.

*Reykjaá* rennur í sömu átt eftir Reykjadal, millum Reykjasúlu og Gilsártinds. Þá koma *Gilsá, Ljósá, Rangá* og *Hafnará,* yzt; allt smáár.

Í Norðfirði eru þessar ár:

*Norðfjarðará* eður Dalsá rennur til austurs eftir Fannardal í innanverðan fjarðarbotninn; að henni eru eyrar öllu-megin, og er hún býsna-vatnsmikil og ill yfirferðar á vorum og framan-af sumri. Í hana renna: *Seldalsá* eftir Seldal og *Hengifossá* eftir Oddsdal, báðar sunnan-fram, utan-undir Seldalshálsi. Að þeim liggja annað hvort háir grasbakkar eða lág gljúfur.

Í Hellisfjörð fellur.

— — —

Í Viðfjörð fellur.

— — —

Í Sandvík fellur.

— — —

Í Vöðlavík fellur:

*Karlstaðaá; Ímastaðaá* kemur úr Dysjardal og fellur utan-til við Karlstaði í *Kirkjubólsá,* er kemur ofan af Vöðlavíkurheiði, rennur út Víkina og fellur í sjó rétt norðan-við Kirkjuból.

Í Reyðarfirði eru þessar ár.

Yzt norðan-fram er:

*Teistaá,* mjög lítil; rennur ofan Karlsskálaskriður.

*Flesjaá,* millum Litlu-Breiðu-víkur og Karlsskála; fellur í sjó hjá skerinu Áttæringi.

*Teigarár* ytri og innri, hvor rétt hjá annari; skifta löndum milli Stóru- og Litlu-Breiðu-víkur.

*Kerlingará,* millum Stóru-Breiðu-víkur og Hjáleigu.

*Hrafná* kemur úr Hrafnaskörðum, inn- og uppaf Stóru-Breiðuvík, nálægt Grákolli, og fellur í sjó í Helgustaðahlíð.

*Helgustaðaá* kemur úr Helgustaðadal og rennur í sjó hjá Helgustöðum.

*Goðá* kemur ofan Sellátradal og fellur í sjó fyrir utan Sellátra.

*Bleiksá,* kemur ofan úr Lambeyrarbotnum undir Lambeyrarfjalli og fellur í sjó rétt hjá *Eskifjarðará,* sem hefir upptök sín á Eskifjarðarheiði og rennur i fjarðarbotninn; í hana rennur *Þverá* úr Þverárdal innan-við Eskifjörð og þar að auki nokkrir smálækir.

*Grjótá* kemur úr Grjótárdal, innanvert við Hólmatind, og rennur í Reyðarfjörð (innri) rétt fyrir utan Sómastaði.

*Ljósá* kemur úr Ljósárdal þar fyrir innan og rennur í sjó á Ljóseyri.

*Búðará* kemur úr Svínadal og fellur í sjó milli Kollaleiru og Bakkagerðis, við Búðareyri.

*Njörvadalsá* kemur úr Njörvadal og fellur, skammt fyrir utan Seljateig, í *Sléttuá,* sem fellur í sjó í miðjan Reyðarfjarðarbotn fyrir neðan Sléttu; hún er megináin í Reyðarfirði og dregst saman úr mörgum smáám úr inndölunum sem nú skal telja:

*Fagradalsá* rennur eftir Fagradal og niður í byggðina fyrir innan Grænafell; í henni er hár foss þar sem hún fellur fram úr dalnum; *Hrútá* kemur úr fjöllunum vestan við Fagradal og rennur þar í Fagradalsá; *Hjálpleysuá* kemur úr dalnum Hjálpleysu og rennur til norðurs í Fagradalsà; *Áreyjará* kemur af Þórdals- (Jórudals)-heiði og rennur einnig í Fagradalsá skammt fyrir neðan Áreyjarbæ. *Stuðlaá* sprettur upp á svo-kölluðu Djúpadalsvarpi, með býsna-stórum fossi skammt frá uppsprettunni, rennur síðan eftir Skógadal og út eyrarnar neðan-við Stuðla, þar til hún kemur saman við Fagradalsá. *Grjótá* eður *Hjálmadalsá* kemur úr Hjálmadal, sem liggur upp á fjöllin sunnan fram fyrir ofan Stuðla, og fellur innan-við bæinn í Stuðlaá. Úr öllum þessum ám og enn nokkrum lækjum verður Sléttuà sem fyr var sagt.

Sunnan-fram í Reyðarfirði er innst

*Fossá,* er kemur úr Fossárdal hjá Sléttu, með einum fossi bröttum og háum; þá *Hrútá* úr Hrútárdal; rennur hjá Borgargerði; þá *Holtastaðaá,* er kemur úr innri Jökulbotnum, og *Miðstrandará,* úr ytri Jökulbotnum, og *Eyrará,* sem kemur úr Eyrardal og fellur í fjörðinn skammt fyrir utan Eyrarbæ.

Allt litlar þverár með smáfossum.

Í Fáskrúðsfirði eru þessar ár og lækir nafnkendastir. Yzt að norðan-fram er:

*Hrútá,* sem fellur undan Spararfjalli.

*Höfðahúsaá* verður úr læk þeim, er fellur niður úr miðjum Grákolli.

*Heljará* kemur úr Heljardal niður-frá Hrossadalsskarði.

*Gilsá* fellur út Gilsárdal og þaðan í þröngu gili ofan fyrir utan Kjapteyri.

*Hölknalækur,* utarlega á Búðaströnd, fellur úr Kjapteyrarmúla.

*Skjólgilsá* ytri og innri falla innanvert við Búðakrók; meðalstórir lækir.

*Kirkjubólsá* kemur úr Hoffellsdal.

*Ljótunsá* kemur úr Sanddal.

*Hrútá* kemur úr Gagnheiðardal og fellur í *Dalsá,* sem kemur úr Stuðlaheiðardal og fellur út Daladal til sjávar austan-vert við Tungunes.

*Tungudalsá* fellur úr Tungudal til sjávar hjá Sævarenda; í henni er silungsveiði. Þessar tvær ár, sem koma úr inndölum og falla í fjarðarbotninn, eru mestar í Fáskrúðsfirði og þó lítil vötn.

Sunnan-fram er innst

*Jökulsá,* er fellur í gilkorni úr Jökuldal; ekki vatnsmikil að jafnaði; í henni er foss og má ganga bakvið hann þurrum fótum yfir ána.

*Naustá* fellur úr Fleinadal fyrir utan Sævarenda.

*Melrakkaár* þrjár, eru lækir á Sævarendaströnd.

*Eyrará* innri og ytri renna báðar í giljum og koma úr Eyrar- og Sandfells-dölum.

*Selá* kemur undan innanverðu Sandfelli.

*Víkurgerðisá,* í þröngu gili, og *Víkurlækur* koma ur Fleinsdal.

*Hvammsá* fellur úr Víkurvatni og *Hvanná,*

stór lækur, utarlega ofan-úr Grænu-nípu; hún er yzt sunnan-fram.

Í Stöðvarfirði eru þessar ár.

Að norðan fram:

*Einarstaðaár* tvær; þær taka sig upp, hin ytri sunnanundir vörpum Víkurheiðar og hin innri undir rótum fjallanna fyrir innan heiðarvarpið; þær renna um stórgrýtta farvegu millum melhryggja og koma til sjávar næstum hvor hjá annari fyrir neðan túnið á Einarsstöðum; þær eru báðar vatnslitlar, og vöð á þeim niðri hjá Einarsstöðum.

*Vallá* innri rennur eftir Sauðdal í útsuður og síðan til suðurs fram úr honum til sjávar.

*Vallá* ytri kemur ofan úr utanverðum Sauðdal eystra megin og rennur nærfellt jafnsíða hinni innri; báðar eru þær fremur lækir en ár, en geta samt orðið illar í vatnavöxtum, því þær eru bæði strangar ár og apal-grýttar.

*Stutta-dals-lækur* rennur til suðvesturs úr Stutta-dal.

*Þverá* rennur eftir Jafnadal og eru upptök hennar tvenn; aðaláin kemur norðvestan frá Lakaskarði og rennur fyrst i hafaustur, en neðan- og innan-undir Stöðvarskarði spretta lækir upp, er síðan renna saman og verður úr þeim annar hluti árinnar; þar sem kvíslarnar koma saman, heitir Tunga, og úr því beygist áin til suðausturs og rennur svo fram dalinn að innanverðum enda á svo-kölluðum Stöðvarás, fellur þar ofan í á að gizka 10 faðma háum fossi, og tekur úr því við henni gljúfur, sem stefnir í suðvestur, og rennur hún þar mest á klöppum og steinkötlum, með mikilli veltu og hvítfyssi; þar sem gilið þrýtur, fellur

hún aftur niður af 10—12 faðma háum og breiðum fossi og rennur síðan eftir miklum urðar- og steinkatla-farvegi ofan á sléttlendi, og fellur þar í Stöðvará, sem heitir Þverárnes.

*Stöðvará* er hið mesta vatnsfall innfjarðar og má þó heita smávatn; hún hefir upptök sín í stafnseggjum fjarðardalsins og rennur langt fram eftir honum í lágu og þröngu kletta[gili] og síðan á stórgrýttum eyrum, og fyrst í einu lagi fram undir Stöðvardal; breikka þar eyrarnar og áin dreifir sér út í fleiri kvíslar austur á við, allt fram-undir Þverárnesið; fer hún þar aftur að draga sig saman í einn farveg, er síðan tekur stefnu sína suðvestur á við, undir rætur Vesturfjallanna, og þaðan í ýmsum krókum fram að vesturenda Sandrifs þess, sem þar liggur fram-við sjóinn og er áfast við Suðurfjallið; rennur hún svo úr því austur með sandrifi þessu innanverðu og loksins út um ós einn í fjarðarbotninn, austan-til á sandinum. Hún er oftast nær vatnslítil; þó getur hún vaxið svo hún verði ófær. Hún er almennast, þegar lágsjávað er, riðin á svo-kölluðum leirum, þar sem hún fellur fram með sandinum; en með flóði verður að ríða hana innar á svo nefndu fossvaði, skammt fyrir innan það, sem Fossá fellur í hana; en sé áin í vexti, verður þetta vað fljótt ófært og þá er bezta vaðið undan Stöð, skammt fyrir utan Þverárnessodda; er þar á henni þrautavað á eyrunum, og sé hún ekki þar reið, þá er hún alls staðar ófær.

Sunnan-fram við fjörðinn falla einnig nokkrir lækir úr fjöllunum, sem kallaðir eru ár og taka nöfn sín af dölum þeim, sem þær hafa upptök sín i; innzt er *Fossá;* hún kemur ofan úr Fossdal, og við dals-

mynnið byrjar gil að henni, sem liggur niður eftir bröttu fjalli, og fellur áin eftir því í mörgum fossum; er hinn stærsti þeirra hár lausafoss, framt að tvítugur á hæð; hún rennur í Stöðvará sem fyr segir.

*Gaddsá* kemur úr Gaddsárdal og fellur í austur, beint niður í fjörðinn.

*Toftá* kemur úr Toftárdal, og fellur í sömu stefnu ofan í fjörðinn; að henni er ekkert gil, utan lítið eitt í dalsbrúninni. Hún er yzt.

Í Breiðdal eru þessar ár:

*Breiðdalsá* kemur úr litlu stöðuvatni á Breiðdalsheiði og rennur eftir endilöngum Suðurdal í sjó fram.

*Dalsá* kemur niður af Stafnsheiði og rennur út Norðurdal, þar til hún kemur saman-við *Tinnudalsá*, þverá nokkura, sem hefir upptök sín á Tinnudal; renna þær síðan saman og heita þá enn Tinnudalsá, og ofan í Breiðdalsá fyrir utan Kleif. Verður Breiðdalsá úr því stórvatn og oftlega ófær í rigningum og snjóaleysingum; því auk þess, sem nú var talið, lenda í henni öll smávötn úr allri sveitinni, og eru það einkum margar þverár, sem nú skal telja eftir röð, og eru allar kenndar við þverdali þá og dalverpi, sem þær koma úr.

Norðan-fram er yzt

*Snæhvammsdalsá;* þá *Fannár* tvær, ytri og innri; þá er komið að Tinnudalsá, sem fyr var nefnd; þá *Gilsá,* úr Gilsárdal; þá *Svínadalsá;* þá *Hundadalsá,* innst í Norðurdal.

Sunnan-fram; innst

*Flögudalsá;* þá *Skriðudalsá;* þá *Fossdalsá;* þá *Fagra-dals-á;* þá *Skamma-dals-á;* þá *Grunna-dals-á;* þá *Djúpa-dals-á;* þá *Stutta-dals-á* og *Krossdals-á* yzt.

Í Berufjörð falla þessar ár:

Norðan- eða austan-fram fjarðarins er *Krossá*, þverárkorn, sem kemur úr Krossdalnum, utarlega í fjallgarðinum, og fellur í fjörðinn hjá *Berufjarðará;* [hún] hefir upptök sín á Axarheiði og rennur til austurs eftir Berufjarðardal í innanverðan fjarðarbotninn; hún er lítið vatn.

*Fossá* kemur úr Líkarvatni á Hrauns-öræfum og rennur í austur-landnorður eftir Fossárdal, og fellur innarlega í fjörðinn sunnan-fram; hún er nokkuð vatnsmeiri, og sá er annmarki á vaði því, [sem] vegurinn er á yfir hana, að þegar nokkur vöxtur er í henni, verður hún ófær, af því flæðir upp í hana, og jafnan verður að sæta þar sjávarföllum. Að öllum þessum ám eru innst klettagil eða eyrar og bakkar, og engin önnur vötn falla í Berufjörð, utan smálækir sem ekki virðist þörf að nafngreina. Þó mætti nefna *Búlandsá,* yzta sunnan-fram; hún er mjög lítil og kemur úr Búlandsdal; fellur hún eftir dalnum í gljúfri, og þar, sem það endar, heitir Nykurhylur; síðan rennur hún á eyrum til sjávar.

Í Hamarsfjörð renna:

*Vigðarlækur,* á innanverðri Hálsströnd; sprettur upp undan fjallgarðinum og frýs aldrei á vetrum; hann fellur í fjörðinn vestanfram.

*Hamarsá.* Sagt er, hún hafi upptök sín á svokölluðum Eyjabökkum, og rennur hún í þröngum farvegi eftir öræfum fram-í Hamarsdal, og eftir honum endilöngum til sjávar í fjarðarbotninn. Úr því dregur fram í byggðina, er hún vön að vera býsna-vatnsþung og getur oft orðið ófær í vatnavöxtum, en í þurkum er hún kornlítil og sléttar eyrar að henni

allri utarlega, svo hún er þar víðast hvar með góðum vöðum. Ekki eru fossar í henni, nema ef telja skyldi Einstígsfoss, og neðan-undir honum Axarhylur. Austan-fram í dalnum falla í Hamarsá ýmsar smáþverár og lækir; nefna má:

*Langa-gils-á,* sem kemur úr dýjalækjum upp-undir eggjum; hún fellur í gljúfri og er mjög lítil, nema í vatnavöxtum.

*Steiná,* eins lítil og með sama háttar upptökum; fellur ofan Steinárgil;

*Vesturhúsaá* kemur úr Vesturhúsadal.

*Karfagilsá* kemur af öræfum og rennur víðast hvar í miklu gljúfragili, og eins

*Leiðagilsá,* sem fellur um Leiðagil; draga þær og báðar saman úr smálækjum á öræfunum.

Sunnan-fram falla í Hamarsá:

*Langi-morsi,* strangur og heldur vatnsmikill þverlækur; hann kemur undan Þrándarjökli og fellur eftir miklu gili í Hamarsá fyrir utan Melfjall.

*Þrándarár, innri* og *ytri,* koma einnig báðar undan Þrándarjökli; þær eru lítil vatnsföll og falla víða í bratta.

*Stangarnesslækur* kemur úr stöðuvatni, sem liggur uppi undir Þrándarjökli og fellur niður um Stangarnessgil.

*Leirdalsá* kemur úr dýjalækjum innan-til á Leirdal og fellur í gljúfri neðan-til á dalnum, fram úr því í svo-kallað Jökulgil og þaðan niður í Hamarsá.

*Snædalsá* er yzt sunnan-fram og kemur úr Snædal; fellur hún þar sumstaðar í gljúfri og er í henni foss einn, ekki all-lítill, kallaður Snædalsfoss; hann er

þverhnýptur og heyrist löngum niður hans langar leiðir, því áin sjálf er nokkuð vatnsmikil.

Í Álftafjörð (syðri) falla:

*Geithellaá;* hún hefir upptök sín í melum inn-af Geithellabótum og rennur í austur til suðurs eftir Geithelladal, fram í botn Álftafjarðar. Efst í dalnum er víðast hvar gljúfur að henni og foss einn, kallaður Stóri-foss, fyrir utan bæturnar, hár og beinn og fellur niður-af holbergi. Þegar lengra dregur fram, rennur hún víðast á sléttum eyrum og eru þar góð vöð á henni. Í hana renna að austanverðu ýms smá þvervötn; nefna má:

*Þrándará,* sem rennur niður um Þrándargil fyrir innan Hlíðarfjall og kemur undan Þrándarjökli.

*Sunna* kemur einnig úr jöklinum og fellur í gljúfri niður á milli Sunnutinds og Þrándarheiðar; heldur vatnsmikil og jökulblandin.

*Langi-morsi* heitir og á þessum dal stór þverlækur, er kemur úr jöklinum og rennur í gili millum Sunnutinds og Stóra-foss-brúna niður í Geithellaá.

*Hofsá,* lítil á, hefir upptök sín í stafni innri Hofsbótar og sprettur þar úr jörðu. Rennur hún eftir Hofsdal og er þar gljúfur að henni innan-til á dalnum, en síðan, frá svo-kölluðum Skógum, sléttar eyrar út til fjarðar. Foss einn er í henni auk annara smærri, er heitir Stóri-foss, hár og beinn, og klýfur sig að ofan um þunnan standklett, sem skagar fram úr bergbrúninni, þar sem fossinn fellur fram af, og er þar hylur mikill undir niðri. Nefna má enn í Hofsdal:

*Haugalæk;* hann kemur úr jörðu á því svæði, sem kallað er Haugar, austan-megin niður af Hoftungu, og rennur á sléttu út í Hofsá. Að honum eru

fagrir bakkar, vaxnir víði- og birki-runnum, er breiða yfir hann limar sínar á sumum stöðum.

*Flugstaðaá* kemur úr Flugstaðadal og rennur í Hofsá, utan-fram við Hofstungu. Hún sprettur upp í Sviptungnavarpi og rennur í gljúfri fram um Afréttarhausa og þaðan á sléttum eyrum.

*Drangá* og *Grjótá,* báðar mjög litlar þverár, falla í Hofsá, fyrir utan ármótin; þær spretta upp upp-í fjallaeggjum og renna í giljum, sem við þær eru kennd.

*Selá* kemur úr Selár- eður Starmýrar-dal og fellur mest á sléttum eyrum út í affalla nokkurn, svokallaðan, í Suður-Álftafirðinum; hún er ekki vatnsmikil, og [er] góð yfirferðar. Í hana fellur *Heiðará,* lítið vatn; hún kemur undan vörpunum á Lónsheiði og rennur þar fyrst um stórgrýttar eyrar; en þar, sem hún fellur niður af heiðinni, er allmikið, en stutt, klettagljúfur, kallað Almannagjá; þaðan rennur hún í klettagili, og seinast um sléttlendi fram til Selár.

*Þvottá* er lítill lækur austan-fram melhóla þeirra, sem eru fyrir austan Fauskahlíð, og kemur þar úr melunum, og rennur á sléttum eyrum út til sjávar. Þar skírði Þangbrandur.

*Haugslækur* kemur úr Haugstjörn, austan-til í fyr-nefndum melhólum, og rennur einnig til útsjóar.

*Fauská,* mjög lítil, kemur úr Fauskahlíð og sprettur þar úr jörðu; hún rennur einnig fram til strandar og fellur í sjó fyrir sunnan Styrmishöfn. Hún er hið næsta rennandi vatn, sem talið verði fyrir austan Eystra-horn.

Í Lóni eru þessar ár:

— — —

### B. VATNSFÖLL Í HÚNAÞINGI.

Í Hrútafirði eru þessar ár:

— — —

Í Miðfirði eru:

*Núpsá* kemur í smákvíslum úr tjörnum suður-á Tvídægru og rennur til norðurs ofan í Núpsdal og svo beint út eftir honum; hún er vatnslítil og góð yfirferðar.

*Austurá* kemur úr Arnarvatni suður á Arnarvatnsheiði og rennur til útnorðurs ofan Tvídægru, og síðan ofan í Austurárdal, víðast hvar um eyrar, og fellur loks í gljúfri, með flúðum og smáfossum, ofan í Núpsá fyrir sunnan Barkarstaði, millum Staðarbakka- og Efra-Núps-sókna. Hún er ekki vatnsmikil, en víðast ströng og stórgrýtt. Eftir það þessar ár eru komnar saman, heita þær einu nafni Austurá, þangað til saman við þær kemur

*Vesturá,* sem kemur úr vötnum og flóum suðaustur á Tvídægru og rennur út Vesturárdal, yfir eyrar og sumstaðar með grasbökkum; seinast fellur hún eftir gljúfri með flúðum og hyljum í Austurá fyrir sunnan Brekkulæk, er fyrrum hét Bretalækur. Hún er þeirra vatnsmest, ströng og stórgrýtt, og oft ill yfirferðar. Í henni er foss einn suður-á heiði, þverhnýptur, en ekki hár; kallaður Rjúkandi.

Þegar þessar 3 ár eru komnar í eitt, heita þær einu nafni *Miðfjarðará;* rennur hún í norður-útnorður eftir Miðfjarðarhéraði og kemur til sjávar í innanverðan fjarðarbotninn. Hún fellur víðast hvar eftir eyrum og sléttlendi, og hefir hún mjög breytt þar farvegi sínum, ýmist til austurs eða vesturs; hún er býsnavatnsmikil, en ekki ströng, og víða eru vöð á henni á eyrunum eður hinu svo-kallaða eylendi.

Auk þessara stærri vatna eru í Miðfirði nokkrar smá-ár, sem fremur eru lækir en ár; má af þeim nefna:

*Hlíðará,* er kemur ofan af Hrútafjarðarhálsi og rennur til austurs í Vesturá fyrir sunnan Huppahlíð.

*Litla-Þverá* kemur ofan af Vesturhálsi og rennur til vesturs í Vesturá.

*Þverá* kemur ofan af Austurhálsi og rennur til vesturs í Núpsá.

*Aurriðaá* kemur úr Aurriðavatni á Miðfjarðarhálsi og rennur til vesturs í Miðfjarðará.

*Kirkjuhvammsá,* lítil þverá, rennur til vesturs í Miðfjörð.

*Brandaskarðsá* kemur úr skarði einu í Miðtungufjalli og fellur til útnorðurs, rakleiðis ofan fjallið, fram í Miðfjarðarflóa. Hún skilur Kirkjuhvamms- og Tjarnarsóknir.

*Þorgrímsstaðaá* rennur eftir Þorgrímsstaðadal, millum Vatnsnesfjalls og Múla, og

*Katadalsá,* eftir Katadal millum Múla og Katadalsfjalls; þær renna báðar til norðurs, koma saman í eitt og heita þá

*Tjarnará,* er rennur til útnorðurs og fellur í sjó norðvestan-á Vatnsnesi; hún er vaðalaus að kalla og verður oft bráð-ófær í stórrigningum og leysingum.

*Þórsá* kemur úr Þórsvötnum, er liggja innanvert á austanverðum Vatnsnessfjöllum; rennur hún fyrst móti norðri út heiðina og síðan til norðausturs fram í Húnaflóa, austan til á Vatnsnesi innanverðu, og skilur þar Tjarnar- og Vesturhópshóla-sóknir.

*Sigríðarstaðaós* fellur úr Sigríðarstaðavatni út í suðvesturkrók Húnaflóa. Þar er ekki mjög harður

straumur, og sagt er ósinn leggi sjaldan á vetrum. Þar var áður skipalega langt upp-í ósinum, og bundu festar sínar við Leguklett, er stendur við Legumýri, austan-til við ósinn, skammt út-frá vatninu. Sagt er og, að enskir og Hamborgarmenn hafi átt þar búðir á 16. öld, en Olavius, sem skoðaði ummerki þau, er þar sjást enn, telur þau líkari skipahrófum en búðastæðum. Að innan er ósinn 7 feta djúpur um fjöru, með smásandi í botninum, en þvert fyrir mynni hans liggur sandrif, og er á því 5 feta djúp um fjöru þar sem dýpst er, við klett einn háan vestan-til í ósmynninu, sem heitir Hvítserkur; tekur sandrif þetta af allt brim og sjávargang, og þykir sem vera muni allhent að leggja þar inn smáskútum, einkum þar leiðin upp-undir ósinn er hrein, og opin lega fyrir framan hann, ef bíða þarf sjávarfalla.

*Fitjá.*

— — —

*Víðidalsá.*

— — —

*Ásgeirsá.*

— — —

*Dalsá.*

— — —

*Gljúfrá* kemur upp syðst undir Víðidalsfjalli og rennur austan-undir því til norðurs og síðan í djúpu gili til útnorðurs, og seinast um eyrar fram í fljótið. Hún er lítil, en heldur ströng, og eru vöð á henni niður-á eyrunum og svo á alfaravegi í gilinu milli Miðhóps og Hólabaks.

*Kornsá* kemur úr Kornsárvatni á Grímstungnaheiði og rennur í landnorður fyrir vestan Undirfells-

fell og Bæjaháls ofan í Vatnsdal, og fellur þar í Vatnsdalsá.

*Vatnsdalsá* er fallegt vatn og straumhægt; hún rennur til norðurs, eftir endilöngum Vatnsdal, á sléttum eyrum eður milli grasbakka, út í Vatnsdalsvatn, sem almennt er kallað »flóð«. Hún er býsna-vatnsmikil, en víða góð yfirferðar. Nokkur silungur gengur í hana úr flóðinu. Þegar Vatnsdalsá rennur aftur fram úr flóðinu, er hún kölluð *Kvísl*; byrjar hún á Skriðuvaði og rennur í norður um Þingeyrasókn út í Húnavatn. Rétt austur af Steinnesi fellur úr henni síki nokkurt, kallað *Þverkvísl*, um þverar eyrar, austur undir brekkur í *Axlarkvísl* eða *Brekkukvísl*, sem kemur úr Hnausatjörn og rennur til útnorðurs í Húnavatn. Sú breyting hefir orðið á farvegi vatna þessara, líklegast þegar hin nafnkennda Skíðastaðaskriða féll 1545, að aðal-vatnsmegnið rann áður með austurbrekkunum eftir hinu forna árfari, sem Axlarkvísl nú fellur um, en nú fellur það fyrir vestan eyrarnar eftir Kvíslinni. Á henni er ferja í Steinnesi og hefir lengi verið, því hvergi er vað á henni frá Skriðuvatni og út-undir Húnavatn, þar sem heita Heyvöð, og er hún þar djúp.

*Giljá* kemur framan af Sauðadal, milli Vatnsdalsfjalls og Reykjanibbu, og rennur í norður út dalinn og síðan í útnorður gegnum Giljármela, í þröngu gili, og loksins í innanvert Húnavatn. Hún er lítil, en ströng, og vað í henni á miðjum Giljármelum, í Norðlingahvammi; það heitir Norðlingavað.

*Húnaós* fellur til sjávar úr Húnavatni á Þingeyrasandi; hann liggur langan veg með ströndinni í vestur-útnorður, og gengur þar fram að austan langur

tangi milli óssins og fjarðarins. Um flóð og fjöru er allmikill straumur í ósinum, en vægur þess á milli, og dýptin með fjöru hér um bil 7 fet; má af því sjá, að þar er vel leggjandi inn smáskútum. Það er og alkunnugt, að fornmenn lentu þar skipum sínum, og má þar enn sjá búðastæðin við ósinn út og ofan undan Geirastöðum. Mikill selur gengur þar upp, og þykir ekki örvænt, að þar myndi vel heppnast selveiði, ef kænlega væri tilstillt og með nægum tilkostnaði og atorku.

*Torfalækur* kemur úr Torfavatni og rennur á sóknamótum milli Þingeyra- og Hjaltabakka-sókna til útnorðurs í Húnaós.

*Laxá* kemur úr Svínavatni og rennur fyrst í útnorður, fram að Hjaltabakka, og þaðan fyrir ofan fjörur vestur í Húnaós. Í henni er einn foss, ekki hár, er fellur ofan stölluð hamrabelti, og er þar stunduð laxveiði undir fossinum, enda gengur mikill lax í ána og myndi þar geta verið góð veiði.

*Blanda* er allmikið jökulvatn. Hún hefir upptök sín úr nokkrum smákvíslum, sem koma undan suðvesturhorni Hofsjökuls, og heitir fyrst *Blöndukvísl*, þar sem þær koma saman. Rennur áin þar fyrst til útnorðurs og beygist síðan hjá Kjalhrauni rétt í norður, og heldur þeirri stefnu til byggða. Í hana renna:

a. *Svartakvísl* og b. *Strangakvísl*, báðar úr Hofsjökli; er hin fyrri svört á lit, en hin síðari ljósleit; c. *Herjólfslækur*, úr flóum; d. *Beljandi*; e. *Haugakvísl*, er dregur nafn af Vékelshaugum á Eyvindarstaðaheiði; f. *Galtará*, kemur úr Galtarárdrögum, og yzt g. *Refsá*. Allar þessar ár falla í austanverða

Blöndu. Nú, þegar öll þessi vötn eru saman komin, fellur Blanda eftir Blöndugili, um stórgrýti og flúðir, með stríðum straumi og hvítfyssi, en öngvir eru þar verulegir fossar. Ofan allan Blöndudal rennur hún í gili og eru þar víðast klettar að henni. Þar eru vöð á henni frá þessum bæjum: Eyvindarstöðum, kallað Krossvað, Brandsstöðum, Blöndudalshólum og Finnstungu, og eru engin góð, sökum straums og stórgrýtis; Hamarsvað, kallað að fara á Hamrinum, er almenningsvað og allgott, því þar er áin breiðust og óstríðust; það liggur undan hálstaglinu, sem gengur fram milli Blöndudals og Svartárdals. Skammt fyrir utan Hamarsvaðið kemur í Blöndu að austan *Svartá*. Hún hefir upptök sín úr Aðalsmannsvötnum fram-á fjöllum og rennur til norðurs um Svartárbuga, og síðan í miklu klettagili ofan í Svartárdal og eftir honum endilöngum, um krókóttan, grýttan, brattan og sumpart gljúfróttan farveg, og fellur loks á eyrum fram úr dalnum í austanverða Blöndu. Víða í byggðinni liggja að henni grjót- og gras-eyrar, og sumstaðar snarbrött klif eða kletta-annes. Í hana renna þessar þverár:

a. *Fossá;* hún hefir upptök sín fremst á Fossárdal úr smálækjum og uppsprettulindum, og fellur til norðurs út dalinn í margbreyttum krókum, og kemur loks í vestanverða Svartá skammt frá hinni nafnkenndu Stafnsrétt.

b. *Hvammsá* hefir og upptök sín úr smá-uppsprettum á svo-kölluðum Sauðadal, fram-á Stafnsafrétt, og rennur til útnorðurs ofan af fjalli í austanverða Svartá, skammt fyrir sunnan bæinn Hvamm í Svartárdal. Hún rennur mjög krókótt

og, þegar ofan af fjallinu hallar, í djúpu gljúfragili, sem endar skammt fyrir ofan ármótin.

c. *Gilsá* hefir upptök sín úr smá-uppsprettum og forarflóum á fjallheiðinni austur-af Svartárdal, gagnvart Vatnsskarði, og fellur þvert ofan af fjallinu í mjög djúpu klettagili fram í Svartá, sunnanhalt við bæinn á Gili.

d. *Bólstaðarhlíðará* kemur úr Sæmundarvötnum, sem liggja á fjöllum uppi, vestur-af Sæmundarhlíðinni í Skagafirði. Hún rennur víðast um þröngan farveg, sumstaðar með gljúfrum og smáfossum, og kemur í Svartá sunnanvert við Bólstaðarhlíðarfjall.

Nú rennur Blanda til útnorðurs eftir endilöngum Langa-dal, og seinast, þegar fram úr dalnum kemur, nærfellt í vestur, millum Hjaltabakkasóknar og Refasveitar, og kemur til sjávar í Blönduósi, innarlega í austanverðan Húnaflóa. Á þessari leið renna enn í hana að austan:

*Auðúlfsstaðaá*, sem hefir upptök sín fyrir austan Laxárdalinn, úr tjörn einni á Litla-Vatnsskarði. Hún fellur þvert vestur, um brattan og stórgrýttan farveg gegnum Auðúlfsstaðaskarð, og fellur í Blöndu skammt suðvestur frá Auðúlfsstöðum. Hún er á sóknamótum millum Bólstaðarhlíðar- og Holtastaða-sókna. *Strjúgsá* kemur úr Strjúgsskarði; *Hvammsá*; allar litlar þverár. Bezta vaðið á Blöndu er í Langa-dalnum á Hrafnseyri, skammt frá bænum Breiðavaði, og þar fara flestir yfir um. Ferja er og á henni frá Holtastöðum, á svo-nefndu Mjósundi, og önnur á Ósnum, frá Enni. Fornmenn komu stundum skipum sínum í Blönduós, en ekki verður skipum lagt upp eftir ánni,

vegna klifa þeirra, sem eru að henni skammt frá sjó. Þess má enn geta, að fram-á Eyvindarstaðaheiði rennur áin um slétta sanda í mörgum kvíslum, og þar eru á henni hin svo-nefndu Blönduvöð, og eru þau all-góð, en þó aðgæzluverð, því hún breytir þar mjög oft farvegum. Þau eru á Skagfirðingavegi, og fara þar yfir allir, sem leið eiga yfir Stórasand, millum Borgarfjarðar og Skagafjarðar.

Á Skagaströnd og Skaga, út-frá Blönduósi, falla þessar ár í austanverðan Húnaflóa:

— — —

## II.

## ÚR ÞÆTTI UM EYJAR OG SKER.

### A. EYJAR OG SKER Í MÚLAÞINGI.

Á Vopnafirði liggja:

*Leiðarhafnarhólmi* liggur fram-undan Leiðarhöfn á Tanga. Þar er æðarvarp.

*Miðhólmi* og *Skipshólmi* eru tveir litlir hólmar, innan-til við Leiðarhafnartanga og rétt fram-undan Vopnafjarðarkaupstað. Þar er æðarvarp og á Hofskirkja þá báða.

*Bjarnarey* liggur norðaustan af Fagradalsfjalli, skammt frá landi. Hún er 20—30 dagsláttur að stærð, og metin 6 hndr. að dýrleika eftir Hofsmáldaga. Klettur er á eynni, sem Gullborg heitir, og mælt er, að hellir liggi undir henni, en nú er að mestu leyti sigið fyrir munna hans. Hún er óbyggð, en á vorum liggja þar sjómenn við skála til hákarlaveiða. Þar hélt Jón lærði til í 3 ár og hefir markað þar á klöpp ártölin 1632 og 1635.

*Gunnarssker,* kennd við Gunnar Þiðranda-bana, liggja hvort hjá öðru hér um bil á miðri Njarðvík; þau eru 7 að tölu og gengur sjór yfir þau með flóðinu.

*Hafnarhólmi* liggur á Borgarfirði, fram-undan bænum Höfn. Hann er klettum gyrtur umhverfis og eru þar tvær víkur, sem lenda má í. Þar er nokkurt æðarvarp.

*Kaupmannsstapi* og *Almenningsfles* liggja hvort hjá öðru fram-undan [nesinu] millum Borgarfjarðar og Brúnavíkur.

*Seley* liggur úti fyrir Reyðarfjarðarmynni, hér um bil viku sjávar suðaustur af Krossanesi. Hún er sögð hér um bil 160 faðma löng og 60 faðma breið. Norðvestan við hana er svo-kallaður *Hólmur,* næstum áfastur henni og suðvestan við hana eru 3 sker, sem heita *Eyjarsker, Miðsker* og *Setusker.* Eyjan sjálf er nokkuð há, með bjargi að norðaustanverðu, og sumstaðar mjög grýtt; samt er nokkur grasvegur á henni, og eins á Hólminum, en skerin eru með öllu graslaus. Lending er þar hin hættulegasta og sífelld brim; samt liggja menn þar til útróðra á vorum og þykir þar allgóð veiðistaða; þar mætti og líklega verða gott æðarvarp, ef það væri friðað, en það hefir ekki verið gjört og hafa því hingað til aldrei orðið not að því.

*Hólmahólmar.* Það eru 5 varphólmar, er svo heita: *Stórhólmi, Yzti-hólmi, Flathólmi, Hraukhólmi* og *Landhólmi.* Þeir liggja yzt við norðurlandið á Innra-Reyðarfirði, fram-undan Leiðarhöfða, og er Stórhólmi þeirra mestur, hér um bil 120 faðmar á lengd og 40 til 50 faðmar á breidd, en hinir minni og minni, eftir þeirri röð, sem vér nefndum þá í. Þar er ágætt æðarvarp (150 pd. í meðalári), og verpir bezt í Yzta-

hólma og Flathólma; eigna menn það því, að þeir eru ósléttastir og þýfðastir, svo fuglinn hefir þar bezt skýli. Þar verpir og mikill lundi, einkum í Stórhólma, og þykir það lítill kostur, því hann grefur alla hólmana sundur og umturnar bæði hreiðrunum og grasveginum.

Enn fremur liggja á Reyðarfirði þessi sker:

*Rifsker* liggja utarlega að norðan, fram-undan Stekkjartanga; það eru blindsker, og brýtur á þeim í hverju brimi. Þau ná 1/4 viku fram í sjó.

*Bugsi* heitir klettur rétt innan-við Stekkjartanga, skammt frá landi, og nokkru innar er

*Áttæringur,* annað sker hjá svo-kallaðri Fles, miðja vegu millum Karlskála og Litlu-Breiðu-víkur.

*Vatnsboði* liggur suður af Krossanesi, skammt frá landi; það er blindsker.

*Flesjarboði, Króarboði* og *Beltaboði* heita leyniboðar á utanverðri Vattarnesbót; hinn fyrst-nefndi liggur innan- og ofan-vert við tangahornið, en hinir innar og ofar á bótinni út frá Engimýrartanga.

*Bakur* er sker utan-undir Vattarnestanga; við hann er kennd Baksbót.

Úti fyrir og á Fáskrúðsfirði liggja þessar eyjar og sker:

*Skrúður.* Svo heitir ey, sem liggur norðaustanvert-við fjarðarmynnið, hálfa viku sjóvar undan Hafnarnesi. Hún er upphá sem lítið fjall og nærri því kringlótt, tólftungur mílu á hvern veg og víðast hvar að sunnan, vestan og norðan með misháum, þvergníptum björgum neðan-til, en grasi vaxin að ofan og austan, sumstaðar niður-undir sjó. Inn í Skrúðinn að austan gengur vík ein, sem heitir Hellisvík; að

henni heldur að sunnan flughátt berg, en að norðan sæbrattar klappir. Upp af þessari vík gengur hellir einn mikill; hann er rúmlega 50 faðmar á lengd og meðal-steinsnar á hæð, og þrengist svo um miðbikið, að þar eru að eins nokkurs konar stórgjörvar dyr millum fram- og inn-hellisins, er breikkar mjög til suðurs fyrir innan dyrnar og er þar nálægt 50 föðmum á breidd. Í framhellinum er bjart að framan og verpir þar fjöldi af ritfugli (rita, rilla) upp um allt bergið. Allur hellirinn liggur í vestur og eru veggir hans að sunnan og vestan þvergnípt bjarg, en að norðanverðu gengur niður frá hvelfingunni allt fram til miðs lausagrjóts-skriða af bleikum Drápu-steini, og fyrir framan hana kemur aftur bjargveggur undir mestöllum hellinum. Gólfið er óslétt og fullt af steinum, sem fallið hafa úr berginu. Í innra hellinum er heldur draugalegt og svo dimmt, að þar sést engin skíma, nema lítil undirbirta, þegar menn hafa staðið þar nokkra stund; þá er til að sjá innanvert upp-eftir skriðunni sem þar sé litlar dyr, en þegar skoðað er við ljós, er það að eins grunnur skúti. Þaðan er sprottin sú hégilja, að skúti þessi sé dyr á afhelli nokkrum með járngrindum fyrir. Á þar að búa bjargbúi einn, sem kallaður er Skrúðs-bóndi, og segja gamlir menn hann hafi eitt sinn til forna hleypt skriðu þessari á 18 menn, sem hnýsast vildu um byggð hans*).

---

*) Margar sögur ganga enn af Skrúðs-bóndanum, t. a. m., að kona hans sé prestsdóttir frá Hólmum í Reyðarfirði; seiddi hann að henni og tryllti hana, svo hún sigldi út til hans á fjöl. Eitt sinn tepptust vermenn í Skrúð og kváðu Maríu-rímur í framhellinum; kallaði hann þá til þeirra og sagði: »Nú er skemmt konu minni«; og er þeir spurðu hvað *honum* geðjaðist, sagði hann: »Andrarímur er gott að heyra«. Sagt er og, hann taki alla hornótta hrúta í hagatoll, sem settir eru í Skrúð, og var það lengi siður Vattarness-bænda, að

Inn-við stafn í hellinum er lítil stöðuvatnstjörn, með tæru vatni, ísköldu og bragðlausu. Árið 1838 fann séra Ólafur Indriðason þar töluvert af [Glaubersalti (?)] meðfram neðanverðu berginu að sunnan í hinum innra helli, og litla uppsprettulind norðan-megin hellisins, skammt frá sjávarmáli, með væmið vatn og salt-kennt, svo sem því svarar, að helmingi eður fjórðungi lóðs væri blandað í pott af hreinu vatni. — Mikið varp er þar í berginu, bæði svartfugl og skegla (= rita), en ekki er það hagkvæmt, því bjargið er víða hvar bæði ógengt og ófært til siga. Gnægð af skarfakáli vex í Skrúðnum, og er þar bæði mikið og fagurt víðsýni.

*Arfaklettur* heitir hólmi, grasi vaxinn, norðan-til við Skrúinn; þar er nýfarið að tímgast æðarvarp.

*Þursasker* er mikil fles, graslaus, út frá Arfakletti.

*Brökur* heitir skerjaklasi nokkur, sem liggur í vatnsbrún norður frá Skrúðnum, og er því ófært hafskipum að fara nálægt honum þeim megin.

*Einbúi* heitir iðusker eitt, sem lítið ber á inn- og norður-af Skrúðnum; þó er svo breitt sund milli hans og Hafnarnessflesjar, að vel má þar sigla fram hafskipum suður og norður, þegar fall og vindur er með, en straumar eru þar miklir og önuglegir.

*Æðarsker* liggur í sjálfu fjarðarmynninu suður frá Lambatanga; það er á lengd í suður og norður hér um bil 1/8 mílu, en örmjótt og mest allt nakin fles, þvergnípt að utan, en ekki allhátt, og drífur því

---

gefa honum einn hrút á ári, því satt er það, þeir hverfa fremur öðru fé úr Skrúðnum, — því hornin munu stjaka þeim frá berginu, svo þeir hrapa í sjóinn, þegar þeir tildra sér á hillurnar.

yfir það sjór í stórbrimum. Á austanverðu skerinu er grastorfa og er þar æðarvarp.

*Andey* liggur litlu utar fyrir norðaustanverðu fjarðarmynninu, rétt suður af Hafnarnesi. Hún er $^1/_4$ mílu að lengd í suður og norður og $^1/_{12}$ mílu á breidd, þvergnípt og klöppótt að utan, en uppi víðast mýrlend og flöt; inn í hana að norðan skerst Andavogur hann [er] tvær til þrjár teigshæðir á lengd og sextugur á breidd. Í botni hans er all-laklegt bátsuppsátur, og lending að eynni hættuleg bæði þar og annars staðar, nema í ládeyðu fyrir kunnuga. Að sunnan gengur inn annar vogur, styttri, sem Harðgreip er kallaður, og sýnir nafnið, að lending er þar ekki ljúffellileg. Þar er æðarvarp og þykir torvelt að verja eyjar þessar fyrir ráni Flæmingja, sem jafnan flækjast þar úti fyrir framan-af sumrum.

*Hafnarfles* heitir stórt sker, sem liggur úti fyrir Eystra-Hafnarnesi, norður frá Andey; örskammt frá horni þess til hafsuðurs er leyniboði, svo þar er ekki óhætt á bátum. Milli flesjarinnar og Andeyjar er og grunnsævi mikið, er Ribbur heitir, svo varla eður ekki er fært hafskipum, þótt það kynni að fleytast um sund eitt, er nefnist Engihjallasund, litlu norðar en miðsvæðis milli lands og eyjar; þó verður þar í brimsjó ófært á bátum. Millum flesjar og lands gengur sund, sem fært er í ládeyðu á bátum og liggur betur við föllum, en í því eru að norðan 3 leynisker, varasöm.

*Víkursker* er boði á Víkurbót.

*Gunnarssker* er klettur utanvert við Skálavík; þar liggur Gunnarsboði fast inn og suður af skerinu, og

Hvalnesboði inn og norður af Gunnarsboða; þeir eru báðir viðsjálir í öldusjó.

*Stamparibba* heitir enn boði skammt inn og vestur frá Hafnarnesstanga. Þar varð á skipsbroti 1659 Eyjólfur prestur Bjarnason frá Kolfreyjustað.

Á Stöðvarfirði liggja þessi sker og boðar:

*Gvöndarnessfles* liggur spölkorn undan landi í miðri röstinni fyrir framan Gvöndarnessrennu, og er sundið millum lands og flesjar oftast nær ófært, nema í mestu sumarstillingum. Fles þessi er ávöl, graslaus sjávarklöpp, og liggur þar oft uppi mikill fjöldi sela, en engri veiði verður þar við komið.

*Hálstangaboði* liggur undan Gvöndarnesshálsi, skammt frá landi.

*Andarnefjuboði,* skammt frá landi, millum Bæjarstaða og Landabæjar.

*Ribba* undan Kapalhöfða, 5 faðma frá landi.

*Miðfjarðarboði* liggur úti fyrir miðju fjarðarmynninu; hann er sléttur ofan og hallar út af honum öllu megin; kringum hann er 7 til 9 faðma djúp.

Úti fyrir og á Breiðdalsfirði liggja þessar eyjar og sker:

*Hafnarey* og 10 aðrar smáeyjar liggja í sunnanverðum firðinum undan Óslandi; er þar æðarvarp nokkurt og selveiði, og liggja þær allar undir Heydali. Við Hafnarey er góð höfn fyrir báta og útræði. — Boðar eru þar margir með báðum löndum, en hreint miðfjarða og góð skipalega fyrir innan eyjar.

*Iðusker* heita tvö sker, sem liggja í Kambaröst, beint undan Kömbum.

*Hvopa* heitir boði í Kambaröst, suður af Iðuskerjum:

*Önglaboði* liggur skammt fyrir utan Hvopu.

*Lárungar* heita blindsker sunnarlega í Kambaröst, sem oftast nær brýtur á, og þykir ekki fær skipaleið inn á fjörðinn fyr en komið er suður fyrir þá.

*Blótólfsboði* liggur góðan spöl norðaustur-af Lárungum; hann er fyrir utan Kambaröst.

Sker á Breiðdalsfirði, sem upp úr sjó standa, heita svo: *Fála, Axarsker, Stampur, Suður-* og *Norður-Rifsker, Bakur, Sprökunaggur, Hlaða, Hlöðusker* og *Streitisfles*, sem liggur fyrir sunnan Hvarftanga.

*Hvalsbakur* er stórt sker, sem liggur 4 vikur sjávar austur-suðaustur af Hvarftanga og hér um bil 6 mílur beint austur af Berunesi; það mun vera sama sem Olavius kallar Geirfuglasker, og segir hann það hafi verið forn venja að fara þangað út um Jónsmessuleitið og veiða þar geirfugla og seli; en á hans dögum (c. 1775) voru þessar ferðir með öllu aflagðar.

Fram-undan Berufirði, Búlandsnesi og Hamarsfirði liggur mjög mikill eyja- og skerja-klasi, og skal nú reyna að lýsa afstöðu þeirra og ásigkomulagi svo greinilega sem auðið er.

*Titlingshólmar* eru 3 litlir æðarvarpshólmar, sem liggja utarlega við suðurströnd Berufjarðar.

*Rastarsker* liggur utarlega sama megin í Núpsröst, og þar suður-af eru grynningar og smáboðar.

*Bjarnarsker, Trénef* og *Langi-boði* liggja fyrir landi milli Núps og Kross, og fleiri eru þar grynningar. Boði er og undan Krossi, og í stuttu máli að segja er sjór mjög óhreinn meðfram allri Berufjarðarströnd, næstum því inn í gegn.

*Papey* er byggð. Hún liggur viku sjávar suðaustur-af Búlandsnesi og er hér um bil ³/₄ mílu

ummáls; umhverfis hana eru há björg, sumstaðar næstum því þvergnípt, og heita þau ýmsum nöfnum, t. a. m. Góða-bjarg og Skálmarbjarg, vestan-til á eynni, Hrafnabjörg eystri og syðri, utan-til, Hellisbjarg, hæst allra þeirra, norðanmegin, og enn fleiri. Landslag á eynni er svo, að hún er mjög sett hólum og klöppum með mýrlendi og harðvelli á milli, og er hún að öllu samtöldu ágætlega grösug. Inn í hana vestanverða gengur vik eitt, mjótt og langt og hyldjúpt, kallað Selvogur, og er þar skipalega; annar vogur eins djúpur liggur inn í eyna austanverða; hann heitir Áttahringsvogur. Þar heitir og Kirkjuvík, utan-á eynni, og Hákonarvogur og Trévík að ofanfram. Papey er mikil eign og arðsöm; þar er stórmikið æðarvarp, töluverður bjargfugl og lundatekja, selveði og hagstætt útræði til hákarls- og fiski-veiða.

Kringum aðal-eyna liggja ýmsar smáeyjar:

*Arnarey* liggur þar fyrir miðju norðurlandi; hún er mjög há, með björgum umhverfis, og gengur mjótt og djúpt sund millum eyjanna; í því liggur lítill hólmi, kallaður Eiði.

*Flatey* liggur austur-af Arnarey og er mjótt sund millum þeirra; hún er mikið lægri.

*Höfði* heitir hólmi einn mjög hár austan-undir Papey; sundið á milli þeirra [er] mjótt og djúpt.

*Hvanney* heitir lítil ey sunnan-fram við Arnarey. Suður af henni liggur *Sauðey,* lítill hólmi innan- og vestan-vert við heimaeyna. Vestur af henni liggur *Arfaklettur,* lítill skerhólmi.

Upp-undan Papey, fram-af Búlandsnesi og Hamarsfjarðarmynni liggur mikill eyjaklasi; þar má fyrst telja

*Búlandsnesseyjar.* Þær eru ellefu að tölu, stórar

og smáar, og heita svo: *Yzti-Kálkur;* hann liggur yztur og er grasi vaxinn, með lágum klettum umhverfis. *Hvaley,* þar skammt upp-af; er einnig klettum gyrt; með góðu graslendi. *Úlfsey* og *Grunnasundsey* eru báðar áþekkar Hvaley, og allar nokkuð stórar. *Þorleifshólmi, Kríuhólmi, Ormarshólmi, Þúfuhólmi, Æðarsker, Úlfseyjarhólmi* og *Þrætusker;* eru allir miklu minni en eyjarnar.

*Hörglandshólmar* fjórir og *Selabryggjuhólmar* tveir liggja einnig undir Búlandsnes, og eru þessir minnstir. Á öllum þessum hólmum er jarðvegur og gras.

*Berufjarðareyjar* eru þrettán að tölu og heita svo: *Hrísey, Austur-Örkney, Suður-Örkney, Hafnarey, Kiðhólmi, Flathólmi, Langhólmi, Lynghólmi, Melhólmi, Þeisthólmi, eystri* og *syðri Hafnareyjarhólmi* og *Egilshöfði.* Þetta eru allt smáar eyjar og hólmar, og sprettur gras á þeim öllum, einkum eyjunum. Þeim fylgir og *Þrætusker* og *Steinflesjar.*

*Sandey* er býsna-há og mikil ummáls, með klettum sumstaðar að utan, og góðu graslendi; hún liggur undir Berunes.

Allar þessar eyjar og hólmar (Búlandsness- og Berufjarðar-eyjar með Sandey) liggja í einni bendu, svo ekki verður greinilega sagt, nema með ofmiklum orðafjölda, hvernig afstaða þeirra er, hvers frá öðru. Hér um bil ¼ mílu vestur af þeim liggja

*Þvottáreyjar* í Hamarsfjarðarmynni; þær eru tólf að tölu, með smáhólmum íreiknuðum, og heita svo:

*Eskilsey* liggur innst og snýr þvert fyrir firðinum; hún er býsna-mikil ummáls, með klettum við

sjó sumstaðar og víða grasi vaxin ofan. Næst fyrir utan hana liggur

*Sauðey;* hún er nokkuð minni og lægri en Eskilsey, en að öðru leyti er hún henni áþekk.

*Seley* liggur skammt suður og út af Sauðey; hún er graslaus.

*Hóley* mjög lítil, er austur af Þvottáreyjum.

*Stapey* liggur milli Sauðeyjar og Hóleyjar; hún er býsna-mikil ummáls, með mörgum og stórum melþúfum. Þar er tekinn sandmelur til léna.

*Kálkur* er graslaust klettabelti í sjávarbrún.

*Nótarhöfði* er lítill klettur, hár, með grasvegi ofan.

*Taska* er annar, ummálslítill og hár, einstakur klettur.

*Moldarhöfði,* áþekkur hinum.

*Ámundi* er hár klettur, graslaus, miðja vega milli eyjanna.

*Sauðeyjarhólmar* tveir liggja við Sauðey; þeir eru grasi vaxnir ofan.

*Hvalsker* eru berir skerklettar sunnan-fram við Eskilsey.

Á milli allra þessara eyja og hólma liggja sandar, og má ganga þar þurrum fótum um fjöruna; þó er þar áll, sem heitir Bussabót, er sker sig út frá Hamarsfirðinum miðja vega inn á milli eyjanna, og því verður komizt í þær á báti með háflæði.

Enn eru tvö sker innan-fram laust frá eyjunum, kölluð *Hleinar,* og utan-fram Þvottáreyja, skammt á burt, liggja 3 sker, stór, með sundum á milli; þau heita *Sundasker;* og fram- og austur- af eyjunum, langt

*Hrútey* liggur í Blöndu-mynni, skammt frá sjó. Hún er arðlaus, en sjálfsagt þykir, að þar mætti koma á æðarvarpi, því nokkur hreiður eru þar á vorum; en til þess að stunda varpið þyrfti að hafa kláf á ánni (sem vel mætti við koma), því hún er ætíð [ófær] í vexti og óreið þar um varptímann.

---

*Bls. 3—4.* — JARÐMYNDUN ÍSLANDS. — Ehr. í hrs. Bmf., nr. 8 í 8 bl. br., bls. 3—5 annars vegar; þessi smágrein er þar yfirskriftarlaus meðal athugasemda um ölkeldur o. fl., næst á undan „*Lappiske Ord*“, sbr. II. b., bls. 280. Hún er lauslegt uppkast og stendur sennilega í sambandi við eldfjallasögu landsins, sem Jónas ætlaði að semja og gefa út, sbr. bls. 67—68 og e. fr. bls. 68—190. — Virðist vera frá 1843—44.

*Bls. 4—6.* — KENNINGAR UM JÖKLA. — Ehr. í vasakverinu frá 1840(—41); er auð opna framan-við og 27 síður auðar aftan-við. — Þetta eru að eins lauslegar minnisgreinar, líklega ritaðar við lestur ritsins *Etudes sur les glaciers* (frá 1840) eftir hinn fræga svissneska náttúrufræðing Ludwig Johann Rudolf Agassiz, sem nefndur er í þessum athugasemdum; hann var jafnaldri Jónasar, f. 28. Maí 1807 og var aðallega dýrafræðingur, en fyrir áeggjan Toussaints von Charpentier, þýzks námafræðings, sem einnig er getið í þessum athugasemdum (f. 1779, d. 1847), tók hann 1836 að fást mikið við jöklarannsóknir. Hann var þá prófessor í náttúrufræði í Neuchâtel, en síðar (frá 1846) var hann prófessor í Norður-Ameríku, lengst af (frá 1853) við Harvard College í Cambridge (í Massachusetts) og þar dó hann 14. Des. 1873. — Charpentier hafði bent á, að jöklarnir í Mið-Evrópu hefðu fyr á tímum verið miklu stærri en nú; færði Agassiz sönnur á mál hans og setti fram kenning sína um ísöld, er norðurhluti jarðarinnar hefði að miklu leyti verið hulinn jökli. — Eins og bréf Jónasar frá 4. Des. 1842 og 9. Maí 1843 til fjármálastjórnarinnar bera með sér, sbr. II. b., bls. 141—142 og 145—146 (m. aths.), ætlaði hann að rita um jöklana hér á landi. Sennilega hefir hann einkum haft mikinn hug á því eftir að hann hafði tekið að sér að rita lýsing Íslands og lesið rit Sveins læknis Pálssonar um jökla (Beskrivelse af de islandske Isbjerge), sem hann hefir eflaust þekkt, og ferðabækur hans, er hann keypti handa Bókmenntafélaginu í ferð sinni um Suður- og Austur-land 1842. Sbr. e. fr. bréf hans til J. St. 22. Ág. 1844, II. b., bls. 192—94, m. aths. — Efsta myndin á bls. 6 hefir mistekizt í útgáfunni. — Jöklafræðingar nú á

tímum munu varla fallast á það, er segir í síðustu aths.; sjá t. d. Ágrip af jarðfræði eftir Guðm. G. Bárðarson, 2. útg., Rv. 1927, bls. 128—31.

*Bls. 7—8.* — OSSA FOSSILIA. — Þessi smágrein er til að eins í uppskrift (cand. philos. Brynjólfs Snorrasonar?) á bls. 166—67 í Add. 306 fol í hrs. háskólans í Höfn, er þar ásamt fleira aftan-við uppskriftina af dagbókinni frá sumarferðinni 1842. — Um rostunga hér við land og fleiri slíka beinafundi sem þennan, er Jónas lýsir, sjá nú Lýs. Ísl., II. b., bls. 466—71. — Bls. 7, 4.—5. l. a. n., „Købmand Siemsen“ o. s. frv., Carl Fr. S. í Rvík.; hann útvegaði útlendum söfnum og náttúrufræðingum stundum ýmsa íslenzka náttúrugripi. — 1. l. a. n., „ceta“, hvalur. — Bls. 8, 2. l., „Faktor Baagøe“, Hans B. — frá Húsavík, sbr. II. b., bls. 371, og Fjölni, I. árg., bls. 90—92.

*Bls. 8—66.* — DE ISLANDSKE SVOVLLEJER. — Ehr. var í eigu Joh. Steenstrups, prófessors, ritað á 7 kver („legg“), hvert 6 kvartarka, en 4. kverið er ritað af Jap. Steenstrup og eru þar að eins 4 blöð skrifuð, hin auð (sbr. bls. 35—41), og í 7. kveri eru ritaðar að eins rúmar 5 bls. Þetta ehr. er hreinrituð uppskrift. Í vörzlum Bókmenntafélagsins er enn til ein kvartörk af frumritinu; er á henni upphafið á greininni um Hlíðarnáma, það sem hér er á bls. 9—11 og 4 efstu línurnar á bls. 12. — Ritgerð þessi hefir, ef til vill, átt að vera kafli í bók þeirri, er J. St. og þeir J. C. Schythe og Jónas ætluðu (og áttu) að gera um ferðir sínar og rannsóknir á Íslandi 1839—40. Jónas hefir tekið inn í þessa ritgerð, þær 2 ritgerðir, dálítið breyttar, er hann hafði áður sent fjármálastjórninni um brennisteinsnámana. Sjá að öðru leyti V. b., bls. XCIV—XCV og CVII—CIX. — Bls. 12, 1. l., „Henchel“, þ. e. Ole H., norskur námafræðingur, er stjórnin sendi hingað 1775 til að rannsaka brennisteinsnámana hér. Skýrsla hans, Underretning om de Islandske Svovel-Miiner samt Svovel-Raffineringen sammesteds, er prentuð aftan-við ferðabók Ólafs Olaviusar, Kh. 1780. Um hann og ferð hans sbr. e. fr. inngang framan-við þá bók, bls. CCIV—VII, og Landfrs. Isl., III., 73—4. Eintak Jónasar af uppdrætti Henchels er í hrs. Bmf., nr. 29 í 4 bl. br. — Bls. 26, 11. l., „Þeistareykir“ o. s. frv. Sagnirnar um, hvers vegna þeir lögðust í eyði, eru í „Grímu“, X., 50—54. — Bls. 28, 4.—5. l., „Vejen mellem Hafnarfjörður og Krýsuvík“ o. s. frv., sjá III. b., bls. 98—99, m. aths. — 16. l., „Trölladyngjas Udbrud“ o. s. frv., sjá bls. 164—166, m. aths. — 8. l. a. n., „Krýsuvík-Svovllejer“ o. s. frv., sbr. III. b., bls. 99—102. — Bls. 34, 4. l., „Jordskælv“ o. s. frv., sjá bls. 196. — 9. l., „Flere Svovllejer“ o. s. frv., sjá nú Lýs. Ísl., II., 238—49, og þau

rit, sem þar er vitnað í. — 14.—15. l., „Biskop Hannes Finsen“ o. s. frv., sjá ritgerð hans í ritum Lærdómslistafélagsins, IV., 1—48, og einkum 52. nmgr., bls. 33. — 19. l., Sveinn Pálsson“ o. s. frv. Dagbók hans er nr. 1—3 í abr. í hrs. Bmf., keypt handa því 1842 af Jónasi, sbr. III. b., bls. 263. — Bls. 35—41. Kaflinn um „Den i Svovllejerne stedfindende Virksomhed“ er sjálfsagt saminn af J. St., en það þótti þó ekki rétt að prenta hann ekki með í þessari útgáfu ritgerðarinnar. Hann kemur heim við kenningar Forchhammers um þessi efni og byggist á þeim (sbr. Mindeskr. for J. St., IV., 17). — Bls. 41. Um Krýsuvíkur-náma og aðra brennisteinsnáma hér sjá m. a. Ný fél., XI., 106—31, og XII., 26—35, og um Peter Christian Knudtzon og fyrirætlanir hans með brennisteinsnáma þar einkum sögu Hafnarfjarðar eftir Sigurð Skúlason, bls. 286—89. Knudtzon keypti Krýsuvík 1833 og seldi hana aftur 1835, án þess að vinna þar að námunum. — Um brennisteinsnámana í Þingeyjarsýslu sbr. m. a. Ný fél. XII, 46—60. Ørum & Wulff höfðu þá á leigu fyrst um 20 ár samkv. samningi 16. Júlí 1811 og síðan önnur 20 ár samkv. samningi, endurnýjuðum 25. Júlí 1831, til 16. Júlí 1851; sbr. Lovsaml. f. Isl., IX., 701—3 og 758—60. Árið 1852 var námið lagt niður um hríð í von um, að námarnir bötnuðu, og lá það niðri um næstu 20 ár; sbr. Lovsaml. f. Isl. XIV., 570—71, og XV., 210—12, og e. fr. Lýs. Ísl., II., 248, og IV., 180—82. — Einna fullkomnasta ritið um brennisteinsnámana í Þingeyjarsýslu er rit Fr. Johnstrups, Om de vulkanske Udbrud og Solfatarerne i den nordøstlige Del af Island, Kbh., 1886. — Ágætt yfirlit yfir brennisteinsnámana hér á landi er í bók Þorv. Thoroddsens, Die Geschichte der isl. Vulkane, Kbh., 1925, bls. 356—77. — Bls. 54, 14.—15. l. a. n., „det massilianske“ (Svovl), þ. e. flutt út frá Massilíu, borginni Marseille; en sennilega hefir hér verið um „siciliansk Svovl“ að ræða, brennistein frá Sikiley; frakkneskt félag hafði þá einkaleyfi til að vinna þar námana. — Frá Sikiley kemur nú nær helmingur af öllum þeim brennisteini, sem árlega er notaður í heiminum. — Jón Hjaltalín (síðar landlæknir), sem ritaði um brennisteinsnámana í Ný fél., XI.—XII., kennir meðferð brennisteinsins hér á landi um, að hann þyki verri vara (Ný fél., XI., 126—28). — Bls. 55, 16. l. a. n., „Udkast til Beregning“ o. s. frv. Það hafði Jónas samið áður; það er til í frumr. í hrs. Bmf., nr. 29 í 4 bl. br., og í hreinritaðri, nokkuð breyttri uppskrift, dags. 10. Febr. 1841, er hann sendi fjármálastjórninni með bréfi sínu 6. Marz 1841; sbr. II. b., bls. 67—68. Er það bréf ásamt uppskriftinni nú í Þjóðskjalasafninu. Sú áætlun inniheldur hér um bil hið sama og er hér á bls. 55, frá neðstu greinaskilum, til greina-

skilanna á bls. 61. — Jón Hjaltalín birti í grein sinni um brennistein á Íslandi í Nýj. fél., XI., ágrip á íslenzku af þessari áætlun (bls. 118—21). Í næsta árg., bls. 52 o. s. frv., ræðir hann aftur um hana, eftir að hann hafði kynnt sér alla málavexti, og segir, að áætlunin sé að sumu leyti byggð á röngum skýrslum, er Jónasi hafi verið látnar í té. Segir hann „það óyggjanda, að aldrei hefir komið meira af óhreinsuðum brennisteini á Húsavíkur höndlunarstað en rúmlega helmingur þess, er Jónas heitinn tilgreinir“. En einmitt þetta ár, 1839, er Jónas var að rannsaka brennisteinsnámið, og næstu 2 ár á eftir, var flutt árlega margfalt meira að af óhreinsuðum brennisteini til Húsavíkur en gert var fyr eða síðar, og þó að vísu ekki nema um $\frac{2}{3}$ af því, er Jónas reiknar með; en jafnframt er það aðgætandi, að Jónas var ekki að birta reikning yfir það, sem gert hafði verið, heldur áætlun um ágóðann af því, sem gera mætti, svo sem hann gæti orðið eins og námarnir voru þá, 1839—41, og ef skynsamlega væri farið að; sbr. bls. 56 og e. fr. það, sem hann segir á bls. 59—60. — Jón Hjaltalín skoðaði námana 12 árum síðar en Jónas, og voru þeir þá mjög breyttir, bæði af manna völdum og náttúrunnar. — Bls. 60, „Forslag“ o. s. frv. Það hafði Jónas einnig samið áður, og frumr. af því er einnig í hrs. Bmf., nr. 29 í 4 bl. br., en síðasta greinin ein er með hans hendi. Hann hafði einnig sent það til fjármálastjórnarinnar, hreinritaða uppskrift, ehr., dags. 14. Okt. 1840, með bréfi sínu, dags. s. d. (sbr. II. b., bls. 50—52). Hann nefnir þetta þá „Foreløbigt Udkast til Forslag“ o. s. frv. og kveðst koma fram með það „som praktiske Resultater af mine Iagttagelser paa Stederne selv i Sommeren 1839“. Þetta „Udkast“ byrjar á dálitlum inngangi um þá 3 náma, sem konungur átti; í 1. gr. er skýrt frá því, eftir hvaða reglum sé farið (og þó ekki farið!) við brennisteinsnámið, og er innihaldið nær því hið sama og er í þeirri málsgrein í ritgjörðinni, sem hér er á bls. 42—3; síðan koma 7 greinar og er í þeim nokkurn veginn hið sama, sem í gr. 1.—7. hér á bls. 60—66.

*Milli bls. 66 og 67.* — TÖFLUR YFIR ELDGOS Á ÍSLANDI. I—II. — Ehr. í hrs. Bmf., nr. 13 í abr., hvor á sínu blaði. — Standa í sambandi við annað starf Jónasar að sögulegum rannsóknum á eldgosum og eldfjöllum hér á landi; sbr. næstu ritgerð. — Jónas nefnir hér Hnappavallajökul auk Hnappafellsjökuls; síðar hefir honum orðið ljóst, að þetta er sami jökullinn, sbr. bls. 172. Bærinn Knappafell (Hnappafell) breytti snemma nafni og kallaðist Hnappavöllur og síðan Hnappavellir (Knappavellir), og því breytti jökullinn um nafn einnig, — í sumum skrifum. Sbr. Árb. Fornlfél. 1923, bls. 11—12.

*Bls. 67—68.* — SUBSKRIPTIONSPLAN. — Ehr. í hrs. Bmf., nr. 13 í abr., skrifað á kvartörk. Fyrst hefir Jónas skrifað: „den .. April 1839“, en síðar strikað yfir „April“ og skrifað „23de Mai“ fyrir ofan. — Daginn eftir fór hann af stað heim. Ókunnugt er, hvort boðsbréf þetta hefir nokkru sinni verið gefið út um sumarið. Það ber með sér, að það hafi verið borið samanbrotið í vasa all-lengi. — Bls. 67, 11. l., „gennemrejst“, nefnil. 1837. — 16. l., „samlet“ o. s. frv., þ. e. dregið saman úr annálum o. fl. — Sennilega hefir Jónas þá verið búinn að semja eldfjallasögu sína á íslenzku, „eldritið“, sem er í hrs. Bmf., nr. 11 í abr. Það hefir verið þar á 108 bls., en 2 blöð vantar nú í; á þeim hafa verið greinar um Vestmannaeyjar, Borgarhraun og Þurrárhraun, og e. fr. upphafið á grein um Trölladyngjur, sbr. bls. 160, neðst, til bls. 164, efst hér. Flestar síðurnar eru skrifaðar að eins hálfar, annar dálkurinn látinn auður til athugasemda og viðauka, sem Jónas hefir þá einnig gert sums staðar og eru með hans hendi, en annars er handritið uppskrift með hendi annars manns. Marga af þessum viðaukum virðist hann hafa gert síðar, annað-hvort vorið 1843, sbr. bréf hans til J. St. 23. Janúar þ. á., II. b., bls. 150, eða í Sórey um haustið, eftir að hann hafði fengið þangað það sem búið var að prenta af „Íslenzkum annálum frá Krists-ári 803“, sem Árnanefnd gaf út 1847, sbr. bréf hans til F. M. og J. Sig., II. b., bls. 154—56, m. aths., og bls. 71 hér. Þá hefir hann einnig skrifað á næstu síðu framan-við sjálft ritið skrá yfir fornu annálana, ásamt bókstafamerkjum þeim, sem þeir hafa í útgáfunni. Þetta rit Jónasar hefir aldrei verið gefið út, né uppskrifað á ný fyr en við undirbúning þessarar heildar-útgáfu rita hans. Það hefir þó ekki verið tekið með í hana, heldur útlegging af því á dönsku, sem hann virðist hafa gert í Sórey veturinn 1843—44 og er hér næst á eftir. — Í sambandi við þetta er vert að geta þess, að í ferðakveri hans frá 1840(—41) er (á 6 bls.) útdráttur úr ritgerð Hannesar biskups Finnssonar í XIV. árg. félagsritanna gömlu „um mannfækkun af hallærum“. — 5. l. a. n., „2 Hovedafdelinger“ o. s. frv. Af fyrri deildinni er nú ekki til neitt og verður ekki séð, að hún hafi verið samin sérstök; önnur deildin er eldritið, sem nú var getið, og þýðing þess, er hér er prentuð á eftir. Yfirlit („Oversigt“) það, sem átti að fylgja þessum tveim deildum, er ekki heldur til.

*Bls. 68—190.* — DE ISLANDSKE VULKANER. — Ehr. var í eigu Joh. Steenstrups prófessors, 10 kver („legg“), hvert með 6 kvartörkum. Eftirrit er til í hrs. J. S., nr. 419 í 4 bl. br., skrifað af J. Sig. 1870 (Skrá um handritasöfn Lbs., nr. 5311).

Í ehr. Jónasar eru festir miðar með tilvitnunum í annálana, útdráttum úr þeim, og eru þeir með hendi mag. Ben. Gröndals. Þessa útdrætti hefir J. Sig. tekið í eftirrit sitt neðanmáls, og e. fr. hefir hann sett þar fáeinar athugasemdir. — Þessi þýðing á eldriti Jónasar mun hafa átt að birtast, eins og brennisteinsritgjörðin hans, í hinu mikla riti, sem þeir J. St., hann og Schythe ætluðu að gefa út um ferðir sínar og rannsóknir á Íslandi 1839—40, og þess vegna hafa þessar ritgjörðir verið í höndum J. St. og síðan sonar hans. — Bls. 68, 1. l. a. n., „4961 Fod“; á uppdrætti herforingjaráðsins frá 1907—8 er hæð Heklu talin 1447 m., þ. e. 4610½ fet, eða 350 fetum minni. — Bls. 69, 17. l., „en stor „fönn“,“ ehr. „store Fön“; Jónas virðist hér og víðar hafa viljað nota í dönsku orðið „Fön“ í sömu merkingu og — eða í staðinn fyrir — (þýzka) orðið „Firn“. — Bls. 70. J. Sig. hefir sett þessa aths. við nmgr.: NB. urigtigt; se Dipl. Island., I, 351—5. — Jónas hefir rétt fyrir sér í því, að með nafninu *Skarð* í annálunum, 1389(—90) sé átt við þann sama bæ og nefndur er þar áður (1300) „Skarð(ið) eystra“, landnámsjörð Þorsteins Ásgrímssonar, er kallaður var tjaldstæðingur, kenndur við Tjaldastaði, sem lögðust í eyði um leið og Skarð; en J. Sig. á við, að það sé ekki rétt, að bærinn hafi verið nefndur Skarð (ið) eystra til aðgreiningar frá Skarði á Skarðströnd, heldur hafi það verið gert til að greina hann frá Skarði á Landi, sem einnig var nefnt Skarð (ið) ytra til aðgreiningar frá hinu eystra. — Bls. 71, 9.—10. l. a. n., „Halldór Jakobsen“ o. s. frv., þ. e. Halldór Jakobsson sýslumaður; um hann og þetta rit hans um eldfjöllin sjá t. d. Landfrs. Ísl., III., 127, og Sýslum.-æf., IV., 547—48, og II., 394. Rit hans kom út 1757 og var hann þá rúmlega tvítugur. Í þessari grein um Heklugos 1104 kemur ljóst fram, hversu óábyggilegt rit Halldórs er. Þorv. Thoroddsen lýsti því svo í Andvara, XV., 70—71: „Öll bók hans er hrúgaldur af allskonar sögnum, sönnum og ósönnum, hvergi tilfærð heimildarrit, og ber hún auk þess vott um staka vanþekking á landafræði Íslands“. — Bls. 72—73; „det store Mørke“; skýring Jónasar er sennilega rétt; sbr. þó Sonnen- und Mondfinsternisse etc. von Thorkell Thorkelsson, Rvík 1933 (rit Vís.fél. nr. XV). — Bls. 73, 16. l., „S. Paulsen“ o. s. frv., Sveinn Pálsson læknir; um hann sjá Landfrs. Ísl., III., 145—85, en rit það, er Jónas getur um neðanmáls og kveðst hafa notað, mun nú vera nr. 210 í 4 bl. br. í hrs. Lbs. — 24.—25. l.; „Om Uaar i Island“; ritgerð Hannesar biskups Finnssonar, sem getið var áður (bls. 309) kom út einnig á dönsku, í „Et Maanedsskrift“, Kh. 1828—30, þýdd af Halldóri Einarssyni, og síðan sem sérstök bók, 1831: Om Folke-

mængdens Formindskelse ved Uaar i Island. — Um Halldór sjá I. b., bls. 42—44, m. aths. — Bls. 77, 18. l., „Rauðukambar“ o. s. frv.; sjá hér á bls. 189—90, m. aths. — 1. l. a. n., „de saakaldte „Lille-Skove“ oven for Skarð; þetta stafar af misskilningi; í ann. stendur: „í skógana litlu fyrir ofan Skarð“. Fyrir orðin „de saakaldte „Lille-Skove“ “ ætti að standa „Skovene kort“. Hefir J. Sig. bent á þetta í uppskriftinni, sem er í hrs. hans, nr. 418 í 4 bl. br. — Bls. 78, 1. l. a. n., „Torsdagaften før St. Clemensdag“, 1390, þ. e. 17. Nóv. Sbr. Safn t. s. Ísl., II., bls. 73. — Bls. 79, 3. l., „Biskoppe-Annalernes For[fatter]“ o. s. frv., sbr. Safn t. s. Ísl., I., 15—136. — 11.—12. l., „Keldnakot“, sjá Árb. Fornlfél. 1898, bls. 19. — Um Skarð (eystra), Tjaldastaði, Dagverðarnes o. fl. eyðibýli þar um slóðir sbr. bls. 10—11 s. st. og e. fr. Árb. Fornlfél. 1928, bls. 49. 16.—17. l. a. n., „En Mand, som da var til Stede“; það var séra Einar Ólafsson, afi séra Jóns Egilssonar, þá 13 ára piltur. 2. l. a. n., „Eysteinn“ o. s. frv., þ. e. Eysteinn Brandsson í Mörk á Landi; „það er sá sem var (18 vetra) með Lénarði (fógeta), þá Torfi (Jónsson í Klofa) lét drepa hann“, segir séra Jón Egilsson (bls. 64, sbr. bls. 45, þar sem sagt er frá gosinu, og bls. 53), og hann var sá hinn sami, er Ögmundur biskup Pálsson fékk á alþingi 1527 til að ganga þar á hólm og berjast fyrir sig við Atla þann, er Jón biskup Arason fékk til hólmgöngunnar fyrir sitt leyti (sbr. e. fr. Menn og menntir, I., 90—91). — Bær Eysteins hefir nú verið í eyði um 40 ár. — Bls. 80, „Tolvte Udbrud, 1578“, o. s. frv. Sveinn Pálsson hefir, ef til vill, farið eftir Skarðsár-annál, en í honum er á þessum árum ýmislegt sett 1 ári síðar en rétt er samkvæmt Gottskálks-annál, sbr. aths. útgefanda, drs. Hann. Þorst., á bls. 158 nm. í I. b. af Ann. 1400—1800. Í Gottskálks-annál stendur við árið 1577 (og í Skarðsár-annál 1578): „Kom jarðskjálfti eftir allra heilagra messu um kveld, svo húsin hristust hálfa stund“. Þar er ekkert minnzt á Heklu-gos þetta ár né hin næstu. Hefir það því sennilega ekkert verið. Fremur 1581, sbr. aths. við bls. 196. — Bls. 83, 18.—19. l. a. n., „Præsten Benedikt Pétursson“; hann var á Hesti. Um hann sjá Ann. 1400—1800, II., 480—88, og er annáll hans prentaður þar, bls. 488—570 (Hestsannáll). — 6.—7. l. a. n., „Þorlákur Þórðarson“ o. s. frv. Hann varð skólameistari í Skálholti 1696, en dó næsta ár, 22 ára gamall. Ritgerð hans er í hrs. J. S., nr. 422 í 4 bl. br. Um Þorlák sjá Skólameistarasögu Jóns Halldórssonar, bls. 164. — Bls. 87, 2. l., „1728“ o. s. frv. Þetta var 1725; sbr. lýsing Rangárvalla eftir Þorstein sýslumann Magnússon á Skammbeinsstöðum (síðar Móeiðarhvoli; hún er á bls. 315—19 í sýslu-

lýsingunum frá 1744—49, sem nú eru í Þjóðskjalasafninu), Hitárdalsannál (Ann. 1400—1800, II., 600) o. fl.; sjá rit Þorv. Thoroddsens, Die Gesch. d. isl. Vulkane, Kh. 1925, bls. 155—56. — Bls. 88, 4.—5. l., „Præsten Sveinn“ var Vigfússon; hann var aðstoðarprestur séra Bjarna Helgasonar á Stóru-Völlum; var f. 1732 og dó þ. á., 1766. — Bls. 94, 9. l., „1762“; í aths. (J. St.?) utanmáls er bent á það, sem stendur á bls. 370 í ferðabók þeirra um þessa ferð Bjarna: „men han kunde ikke komme op paa Bjerget, formedelst indfaldende Taage“. — 15. l., „Troil“ o. s. frv., Uno v. Tr., síðar erkibiskup; hann og Daniel Solander voru með Joseph Banks, er hann kom hingað 1772; sbr. Landfrs. Ísl., III., 130—35. — 19. l., „Stanley“, John, sbr. sama rit, III., 135—38. — 22.—23. l., „Þ. Thorlacius“, Þórður Th., sonur Skúla rektors Th. í Kaupmannahöfn; hann var hér þá á ferð. Síðar varð hann hér sýslumaður; sbr. Sýslum.-æf., IV., 764—65. — Bls. 95, 8. l., „Mackenzie“, George Stewart M.; um hann og ferð hans hingað sjá Landfrs. Ísl., III., 210—14. — 16. l., „Dr. Thienemann“, Friedr. Aug. Ludw. Th., sbr. sama rit, III., 224—28. — 7. l. a. n., „Jón paa Selsund“, Jónsson (Hannessonar); voru þeir feðgar bændur þar. Við þessi orð er sett (af J. St.?) aths. utanmáls í hr.: „Brandsson f. Næfurholt“. — 1. l. a. n., „Gaimard“, sbr. I. b., bls. 57—59, m. aths. Í hr. er dregið yfir „8“ í dags. í 2. l. a. n. með blýanti og sett 9 utanmáls. — Bls. 99, „Tredje Udbrud, Aar 1000“. Um það mun annars ekkert kunnugt; en Þorv. Thor. bendir á í Die Gesch. d. isl. Vulk., bls. 122—23, að um árið 1179 muni hafa verið Kötlugos. Sjá e. fr. ritgerð séra Jóns Steingrímssonar „Um Kötlugjá“ í Safni t. s. Ísl., IV., 190—99. — 8. l. a. n., „Einar Högnason“, stúdent, í Skógum, föðurfaðir frú Thorfhildar Þorsteinsdóttur Molm, skáldkonu. — Bls. 100, 3. l., „Aar 1263“; eftir Konungs-annál (Ísl. Ann., bls. 134) var gosið 1262. — 5.—6. l. a. n., „Guðmundur Runólfsson“, sýslumaður, á Setbergi við Hafnarfjörð (d. 1780); hann var einn af fleiri heimildarmönnum séra Jóns Steingrímssonar, sbr. Safn t. sögu Ísl., IV., 194 og 198. — Bls. 101, 18. l., „Dýralækir“; réttara mun „Dyralækir“. — Prestsdóttirin á að hafa verið frá Lágey, þar á að hafa verið kirkjustaður, en hún á að hafa fundizt í Dyralækjum eða við þá, sbr. Safn, IV., 199 og 245. — Bls. 102. Skarðsárannáll er eina íslenzka heimildin um gosin 1580 og 1612; rit Guðm. sýslum. Runólfssonar segir séra Jón Steingrímsson hafi glatazt; sennilega hefir hann haft fyrir sér Skarðsárannál og annað ekki; sömul. Jón Espólín. — Bls. 103. Skýrsla Þorsteins sýslumanns Magnússonar um gosið 1625 er í Safni, IV., 200—215, skrifuð 15. Sept. s. á., rétt eftir gosið.

Það var að eins stuttur útdráttur úr henni, sem var prentaður (í danskri þýðingu) 1627. Um Þorstein sjá Sýslum.-æfir, IV., 607—11. — Bls. 107. Skýrsla séra Jóns Salómonssonar um Kötlugosið 1660 er í Safni, IV., 216—19, sennilega rituð 17. Maí s. á. og áður en gosunum lauk algjörlega. Þar er einnig viðbætir við hana eftir séra Jón Steingrímsson, bls. 219—21. — 9. l., „Den 13.“, á að vera „Den 3.“; sbr. „den 5.“ í 19. l. og eftirfylgjandi dagsetningar í skýrslunni. — Bls. 109. Skýrsla Þórðar Þorleifssonar og Erlendar Gunnarssonar, klausturhaldara Kirkjubæjar og Þykkvabæjar, er í Safni, IV., 222—24. Á eftir er þar einnig rit Sigurðar Stefánssonar sýslumanns. — Bls. 112. Skýrsla Jóns sýslumanns Sigurðssonar er í Safni, IV., 235—47, og e. fr. önnur eftir séra Jón Guðmundsson, prest í Sólheimaþingum. — Meðan á þessum gosum stóð, 1. Nóv., varð Lissabon eyðilögð af landskjálfta og þar af leiðandi flóðbylgju. — Bls. 115, 14. l. a. n., „5432 Fod“. Á uppdrætti herforingjaráðsins frá 1907—8 er hæðin talin 1666 m. (mest), þ. e. rúm 5308 fet, eða um 124 fetum minni. — Bls. 117. Skýrslur þeirra séra Jóns Austmanns og Sveins læknis Pálssonar um Kötlugosið 1823 eru prentaðar í Safni, IV., 252—94. — Bls. 130. „Krafla“. Gosin voru kennd við Kröflu, en raunar gaus hún ekki, heldur Leirhnúkur og aðrir staðir í nánd, eins og skýrslur séra Jóns Sæmundssonar og þessi greinargerð Jónasar bera með sér. Skýrslur séra Jóns og fleiri eru prentaðar í Safni, IV., 385—411. — Bls. 131, 11. l. a. n., „Víti“ o. s. frv., sbr. bls. 19 og I. b., bls. 65, m. aths. — Bls. 133, 17. l. a. n., „Bjarnarflag“. — Bls. 134, nm. Sjá bls. 145. — Bls. 139, 3. l., „Svarfaðardals-Annalen“, þ. e. Valla-annáll, sjá Ann. 1400—1800, I., 532. — 23. l. a. n., „S. Holm“, Sæmundur Magnússon H., síðar prestur á Helgafelli; rit hans heitir „Om Jordbranden paa Island i Aaret 1783“. — 8.—9. l. a. n., „Den tredje og mest udførlige Beretning“ o. s. frv. er prentuð í Safni, IV., 1—57, og á eftir aðrar minni eftir séra Jón og Sigurð Ólafsson klausturhaldara. — Bls. 140, 3. l., „Sveinn Pálsson“ o. s. frv. Rit hans er nr. 23 í abr. í hrs. Bmf.; Það var útgefið í Turistforeningens Aarbog, Kristiania 1882, af A. Helland. Útdráttur er í bók Þorv. Thor., Die Gesch. d. isl. Vulk., bls. 32—34; þar er um þessi eldgos á bls. 14—67, ágæt skýrsla um þau og eldstöðvarnar. — Bls. 146, 15. l. a. n., „Rande“, les „Rende“. — Bls. 160—161, sbr. bls. 277 o. áfr. — Bls. 161—162. Sbr. Þorv. Thor., Die Gesch. d. isl. Vulk., bls. 243—44. Bendir höf. á, að Borgarhraun muni hafa myndazt fyrir landnámstíð og gígurinn, „Eldborg“, miklu eldri en segir í Landnámabók. — Bls. 162, 18. l., „Hendersons“, Ebenesers H.; um ferð hans og ferðabók sjá

Landfrs. Ísl., III., 214—23. — Bls. 162—163. Það sem Jónas segir um Skafta Þóroddsson á kristnitökuþinginu hefir ekki við kunnar heimildir að styðjast. Þorgeir goði Þorkelsson frá Ljósavatni var þá lögsögumaður og hélt hina alkunnu ræðu, en fregnin um jarðeldinn hafði komið daginn áður. Skafti var á þinginu, en hélt þar enga ræðu um kristnitökuna, svo kunnugt sé, og lögsögumaður varð hann ekki fyr en 4 árum síðar. — Um Þurrárhraun sjá Þorv. Thor., Die Gesch. d. isl. Vulk., bls. 179—81. Sbr. e. fr. Árb. Fornlfél. 1895, 24—29. Sennilega hefir það verið Eldborgarhraun, er rann árið 1000, sjá nefnt rit Þorv. Thor., bls. 181—82. — Bls. 163—166. Um gos og gosstöðvar í Trölladyngju(m) og nágrenninu sjá Þorv. Thor., sama rit, bls. 182—91. — Bls. 164(—65). „Tredje Udbrud, 1340". Annáll Gísla biskups Oddssonar er prentaður í „Islandica", X. Gosið, er Gísli telur hafa verið í Trölladyngju 1340 (sjá bls. 2), ætlar Þorv. Thor. hafi verið í Brennisteinsfjöllum, sbr. rit hans, Die Gesch. d. isl. Vulk., bls. 182—84, og Ferðabók hans, IV., 185. — Bls. 165, 1.—3. l. a. n., „Mýdalur — Mýrdalur"; síðara nafnið, sem nú er ætíð notað, er að eins afbökun úr hinu. — Bls. 166. „Femte Udbrud, 1390". Það, sem stendur í Árbókum Espolins við þetta ár, er bein, en þó ónákvæm, þýðing af því, sem stendur í annál Gísla biskups við árið 1340. Er engu líkara en að þetta stafi af mislestri á ártalinu, og sennilega hefir gosið (og hinir aðrir viðburðir, er sagt er frá jafnframt) átt sér stað 1340, en ekki 1390. — „helt syd til Søen og vester til Selvogur" = allt suðr í sió, oc vestr at Selvogi" hjá Espolin, en hjá Gísla stendur „usque ad mare apud provinciam maritimam, quæ apellatur Selvogur", og er það eðlilega frásögn („alt að sjó hjá sjávarsveit, sem nefnist Selvogur"). — Eru engar líkur til, að Ögmundarhraun stafi frá því gosi, sem hraun rann frá til sjávar hjá Selvogi. Sé það rétt, sem Þorv. Thor. segir í oftnefndu riti sínu, bls. 185, að standi í gömlum ritum („in älteren Aufzeichnungen"), að Ögmundarhraun hafi runnið 1340, hefir það ekki verið úr sama gosinu, heldur öðru sama ár miklu vestar, því að það á upptök sín fyrir vestan Sveifluháls, en þaðan hefir aldrei runnið hraun austur undir Selvog, því að í Krýsuvík, sem er í milli, er ekkert hraun. En líklega stendur það hvergi í gömlum ritum, að Ögmundarhraun hafi runnið 1340; í Ferðabók sinni, I., 187, segir Þorvaldur: Líklegast hefir hraunið runnið á 14. öld og Jónas Hallgrímsson segir það hafi myndast 1340, án þess þó að færa heimildir fyrir því, en það má vel vera, að ártalið sé rétt, því einmitt á því ári geta annálar um eldsumbrot á Reykjanesskaga". Það er nú ljóst, hvað Jónas segir hér, að það gæti

komið heim, að Ögmundarhraun hefði runnið 1390, ef átt hefði að standa Grindavík fyrir Selvogur í árb. Espolins. Virðist það vera tilhæfulaust, að Ögmundarhraun sé nokkurs staðar talið runnið 1340 (sbr. III. b., bls. 99, m. aths.). En hvað því viðvíkur annars, sem Jónas segir hér um Ögmundarhraun, þá gæti það alls ekki komið heim, að átt væri við það með hraunflóði, sem væri talið hafa runnið út undir Grindavík, því að þangað hefir það ekki runnið, ekki einu sinni í nánd við Ísólfsskála, sem telst að vísu til Grindavíkur, en er mikið fyrir austan aðalbyggðina; milli hans og Ögmundarhrauns er nefnilega annað hraun eldra, sem á upptök sín fyrir vestan Núphlíðarháls. Ögmundarhraun hefir ekki runnið lengra vestur en að Selatöngum og á móts við þá (sbr. Gesch. d. isl. Vulk., bls. 175 og 189). — Bls. 167, 3.—4. l.; afstaða Reykjaness er sett inn samkvæmt uppdrætti Björns Gunnlaugssonar; sömul. Kröflu á bls. 130, því að eftir þeim uppdrætti myndi Jónas hafa farið, eða mælingum þeim, er lágu til grundvallar fyrir honum. — „1223“ o. s. frv. Nr. 429 a 4to í Árnasafni er útdráttur af nr. 417 4to, sem er frá síðasta fjórðungi 16. aldar. Í því stendur að sönnu: „Eldsuppkoma fyrir Reykjanesi“, en þau orð tilheyra sýnilega árinu 1226, samkvæmt öðrum annálum (og Sturlunga-sögu), og verður því í raun réttri ekki talið, að nein eldsuppkoma hafi orðið fyrir Reykjanesi 1223. — Bls. 168. „1230“ o. s. frv. Í annálunum gömlu er ekki getið um neinn eld fyrir Reykjanesi þetta ár, — en hettusótt er þar sagt að verið hafi næsta ár, 1231, og það sama ár, segir í Sturlungasögu, „var kallað sandsumar; þá var uppi eldur í sjónum fyrir Reykjanesi, og var grasleysi mikið“. En 1238 segir í annálum, að eldur hafi verið fyrir Reykjanesi. — 9.—10. l., „hvorved mere end Halvdelen“ o. s. frv.; það segir ekki í annálum, að Reykjanes hafi eyðst 1240, en þeir geta eldsins það ár. Orðin eiga heima við 1340, eru sýnilega þýðing af því, er stendur í annál Gísla Oddssonar og eru þar í sambandi við það, sem hann segir þá um eldgosið í Trölladyngju og áður var getið; sbr. e. fr. næstu grein. — „1390“ o. s. frv.; hér er átt við gosið í Trölladyngju 1340; 1390 hefir ekkert gos orðið neins staðar á þessum slóðum; orðin, sem eru innan tilvísunarmerkja og fyrir framan svigana, eru úr árb. Espolins og eru þau að mestu þýðing á orðum Gísla biskups um það gos: „Item promontorium Reykjanes plus dimidio igne consumptum, cujus vestigia in aperto mari etiamnum conspiciuntur, excelsi scopuli exinde dicti Eldeyiar, sive ut veteres volunt Driftarsteinn (svo), item Geirfuglasker“. Sennilega hefir ekkert gos verið þetta ár, 1340, fyrir Reykjanesi, heldur hefir (upphaflega) verið átt við, að landið þar suður hefði

eyðst (um stund) af eldganginum í Trölladyngju og öskufalli þaðan. Þorv. Thor. hefir víst einnig rétt fyrir sér í því, að það sé tilbúningur einn, að Eldey og Geirfuglasker séu leifar af ytri hlutanum af Reykjanesi, er sokkið hafi í sjó við *þessi* eldsumbrot (Die Gesch. d. isl. Vulk., 193—94), heldur muni það hafa átt sér stað fyr en sögur hófust hér. — Bls. 169, 10. l., „efter lang Tids Forløb", þ. e. síðan 1422; þetta gos 1783 hefir sennilega verið á sama stað og gosin 1211, 1226, 1238, 1240 og 1422, og enn 1830 og 1879. — 12.—13. l., „det blinde Fuglesker", þ. e. Eldeyjarboði. — 23. l., „Nýey" o. s. frv., sjá Lovsaml. f. Isl. IV., 744—45, og V., 4—5. — Sennilega standa landskjálftarnir, sem oft verður vart á Reykjanesi, flestir í sambandi við þessar gosstöðvar þar úti-fyrir. — 1.—2. l. a. n., „Dette er det sidste" o. s. frv. Sennilega hefir verið gos í Vatnajökli sumarið 1838; Björn Gunnlaugsson sá þar reyk upp úr jöklinum þá, seint í Júlí (sbr. Norðanfara, XV., 71, nmgr., Fjölni V., 2, bls. 9, og Gesch. d. isl. Vulk., bls. 77 og 87). Næsta gos, sem alkunnugt varð, var Heklugosið 1845, er hófst 2. Sept., rúmum ársfjórðungi eftir að Jónas dó. — Bls. 170. „En ubestemt Ildsprudning". Hér er í rauninni um sama gosið eða gosin að ræða og lýst er á bls. 100—101. Er sennilegt, að víðar hafi þá orðið gos en í Kötlu. — „Herðabreið"; svo ritar Jónas þetta nafn. Nú er það venjulega ritað Herðubreið, en í Skálholts-annál er það ritað „Herðibreið": — — — „eldr var uppi — — í Herðibreið yfir Fljótsdalsheraði". — Um þetta fjall (og gos) sjá Gesch. d. isl. Vulk., bls. 241. — Herðubreið sjálf hefir víst aldrei gosið síðan land byggðist. — Bls. 172. „Síðan" o. s. frv. Mestar líkur virðast vera fyrir því, að þetta gos 1332 hafi verið í Knappafellsjökli (Öræfajökli) eins og segir í Gottskálksannál. „Suðr á Síðu" í annálsbrotinu N. merkir ekki, að gosið hafi verið á eða upp af því héraði, sem nú kallast Síða. Nafnið Síða var fyrrum haft um allt það land, sem nú er Austur- og Vestur-Skaftafellssýsla (sbr. Kr. Kål., Isl. Beskr., II., 312). — „Hnappavallajökull" o. s. frv. Skálholts-annáll einn segir frá þessu: „(Annarr) eldr var uppi í Hnappavallarjökli". — „1350" o. s. frv. Frásögn Flateyjar-annáls um gos þetta ár virðist óábyggileg; sennilega hefir verið um næsta gos að ræða, 1362. — „1361. Hnappafellsjökull" o. s. frv. Þessi klausa er úr Gottskálks-annál og er þar við 1362. Hér er um sama gos að ræða og það, er segir frá næst á eftir, en ekkert got virðist hafa verið á þessum slóðum (1350 né) 1361. Bls. 173. Gottskálks-annáll (I) og annálsbrotið N (sbr. bls. 172; F er = I, O ekki til) segja frá gosinu 1362; á báðum stöðum er jökullinn, sem hljóp fram, nefndur Knappafellsjökull. Er hvort-

tveggja ólíklegt, að með því nafni sé átt við alla Austurjökla sem heild (Vatnajökul allan) og að Skeiðarárjökull hafi hlaupið fram. Skeiðarárjökull mun nú nefndur að eins skriðjökull sá, er gengur ofan frá Vatnajökli milli Eystra-fjalls og Jökulfells og breiðist út á Skeiðarársand. Knappafell og Knappafellsjökull er óefað sjálft fjallið, sem nú kallast Öræfajökull.*) „Fellið“ var fyrrum kennt við hnúka tvo, sem eru á því, og standa upp úr jöklinum og heita Knappar, en jökullinn á „fellinu“ var kenndur við það eða (og) bæ þann, er stóð undir því, samnefndan, og breytti því nafni með honum (Hnappavalla(r)jökull), svo sem áður var sagt. — 8. l. a. n. í meginmálinu, „Úlfarsá“ o. s. frv. Á með því nafni hefir víst aldrei verið til á þessum slóðum, og mun þetta nafn sprottið af mislestri á nafninu Virkisá. Sú á (eða nú ár, vestri og eystri Virkisá) falla hér fram, þar sem Rauði-lækur var, milli Svínafells og Sandfells; sbr. Fornbrs. I., 245—47, „Blöndu“, I., 44—5, og II., 263—65, og e. fr. Kr. Kål., Isl. Beskr., II., 292—93. Að Virkisá hljóp á Rauða-læk og af tók tvær kirkjusóknir, að Hofi og Rauða-læk, bendir ótvírætt á, að þetta gos hafi verið í sjálfum *Öræfajökli*, eins og Jónas tekur fram í upphafi greinarinnar, og það áleit Þorv. Thor. einnig, sbr. Gesch. d. isl. Vulk., bls. 106—109. Sbr. e. fr. Afmælisrit til Kr. Kål., bls. 34—47, og „Blöndu“, I., 39—53. Bæði fyrri gosin, 1332 og 1341, virðast einnig hafa verið þar. — Bls. 174. „1638“ o. s. frv. Greinin virðist byggð eingöngu á því, sem er í Árb. Esp., VI., 88, en óvíst er, á hverju það er byggt. Segir þar, að vötn öll á Austurlandi hafi fyllzt *flóði* og borið vikur mjög mikið í sjó út, og Jónas leggur allmikið upp úr því. En þetta er dálítið grunsamleg frásögn, ekki sízt, þegar gætt er að viðbót þess, er ritaði upp Skarðsár-annál fyrir Brynjólf biskup Sveinsson, við það, sem staðið hefir við þetta ár í frumritinu, sbr. Ann. 1400—1800, I., 253—54: „Þetta sumar sást *blóð* á sjónum í Austfjörðum sem (í) flekkum eða lengjum af hafinu og að landinu“; sbr. einnig það, sem stendur í Ballarárannál (Ann. 1400—1800, III., 201) við 1638: „Þá snerust fyrir austan 2 firðir í blóð, Mjóifjörður og Seyðarfjörður“. Það sem stendur um gos þetta ár í annálum er þetta í sömu viðbót við Skarðsár-annál: „Þá kom upp eldur fyrir austan um veturinn, á vertíð“. Getur sú viðbót verið á réttum rökum byggð, þótt Björn Jónsson, höf-

---

*) Áður, sjá t. d. í Landafræði Gunnl. Oddsens, I., II., 298, var litið svo á, að Öræfajökull væri nafnið á Knappafellsjökli og Sandfellsjökli í sameiningu. Sjá s. st. um alla þessa jökla, sem ganga út frá Vatnajökli, bls. 296—98.

undurinn sjálfur, gæti ekkert um gosið, er hann ritaði um viðburði ársins, samtímis að kalla. Viðbótin er nefnilega gerð að eins 3—4 árum síðar (sbr. Ann. 1400—1800, bls. 30—31). — Það er líklegt, að þetta gos hafi verið í Vatnajökli, en fjarri öllum mannabyggðum. — Bls. 175. „Skeiðarárjökull“ o. s. frv. „Þá brann Skeiðarárjökull“, segir Espolin, l. c., og hefir sennilega tekið þetta eftir Mælifells-annál, en þar stendur: „Þann 10. Apr. um kveldið sást eldslogi í hádegisstað (þ. e. frá Mælifelli, útgef., dr. Hannes Þorsteinsson) gjósa á himinn upp með leiftrum og gneistaflugi; var að heyra sem skriða félli; fylgdi þessu ryk og aska, svo dusta mátti af klæðum þeim, er úti lágu; var duft það gráleitt og smágert mjög. Við eldmóðu þá hafði hér eigi vart orðið síðan árið 1659; brann þá eldur í þeim jöklavötnum, Skeiðará á Breiðamerkursandi (sic!), hvar Gnúpsvötn, sem renna hjá Lómagnúp, og Djúpá, sem fellur hjá Kálfafellsstað í Fljótshverfi, hafa sín upptök, það er á millum Öræfa og Fljótshverfis; þar meintu menn eldsuppkomuna“ (sjá Ann. 1400—1800, I., 455—56). Er sýnt, að Espolin hefir af þessu litið svo á, að Skeiðarárjökull hafi brunnið 1681, en það segir þó raunar ekki í Mælifells-annál. Hafi eldsloginn sézt í hásuður frá Mælifelli, skyldu menn ætla, að um Kötlugos væri að ræða, og líklega er um gosið þar 1660 að ræða í síðari málsgreininni. En hún er sennilega skrifuð eftir sögusögnum, og ef til vill að sumu leyti eftir minni annálshöfundar, Ara prófasts Guðmundssonar á Mælifelli, og er ekki áreiðanleg; auk þess er hún sýnilega öll úr lagi færð af Gísla Konráðssyni, er gert hefir þá uppskrift, sem orðið hefir að prenta annálinn eftir (sbr. formála útgefanda, drs. Hannesar Þorsteinssonar).*) Verður allt ólíklegt að svo stöddu um eldgos í Skeiðarárjökli 1681, enda vita menn ekki til, að í honum sjálfum séu neinar gosstöðvar, heldur nokkru norðar. — „Grímsvötn“ o. s. frv. Jónasi hefir ekki verið kunnugt um, að neitt gos hafi verið í Grímsvötnum fyr en 1685. Þorv. Thoroddsen hefir bent á í Gesch. d. isl. Vulk., bls. 33 og 109—10, að þar hafi gosið 1598 (sbr. e. fr. Ferðabók hans, III., 259). — 8. l., „Biskop Finsen“, Hannes, sjá ritgerð hans „Um mannfækkun af hallærum“ í gömlu félagsritunum, XIV. árg., bls. 90. — 13. l., „Sveinn Pálsson“ o. s. frv. Vatn það, er

*) Orðin „Skeiðará á Breiðamerkursandi“ (villa fyrir Skeiðarársandi) hafa sennilega átt að standa á eftir orðinu „hvar“, en ekki á undan því. — Skeiðará kemur undan Skeiðarárjökli og kann að koma (að einhverju leyti) úr Grímsvötnum. Nokkur hluti Núpsvatna, áin Súla, kemur einnig undan Skeiðarárjökli; en Djúpá kemur ekki þaðan.

hann hefir heyrt um og á við, er Græna(fjalls)lón (sbr. Ferðabók Þorv. Thor., III., 181), en Grímsvötn eru langt inni í jökli, um 25 km. norðar (sbr. Alm. landaskipunarfr. (Gunnl. Oddssonar), I., II., 295, og nú rit Vísfél. XVIII (Jóh. Áskelsson, On the last eruptions in Vatnajökull, Rvík 1936, bls. 10—14 og uppdr.). — Meiri líkur eru fyrir því, að gosið, sem var árið 1685, hafi verið í Kverkfjöllum en að það hafi verið í Grímsvötnum, því að hlaupið, sem kom þá í Jökulsá í Öxarfirði, hefir sennilega stafað af því (sbr. Þorv. Thor., Gesch. d. isl. Vulk., bls. 102). — „1716" o. s. frv. Sbr. viðauka Fitja-annáls (Ann. 1400—1800, II., 396): „Um Mikaelsmessuleytið var eldur uppi í Austurjöklum eður Grímsvötnum, og lengi fram eftir haustinu"; e. fr. árb. Esp., IX., 31: „Sást eldr í suðaustr úr Skagafirði, ok var í Grímsvötnum". — „1717" o. s. frv. Þessa goss er getið í fleiri annálum en árb. Esp. (IX., 35). Þorv. Thor. áleit, að það hefði verið í Kverkfjöllum (Gesch. d. isl. Vulk., bls. 100—102). — Bls. 176. „1725" o. s. frv. Þetta gos hefir sennilega verið í Grímsvötnum eða í nálægum eldstöðvum, og frá sömu slóðum hefir stafað hlaupið, sem mennirnir urðu fyrir á Skeiðarársandi. — „Nyrðri-Skeiðarárjökull" er norðan-við þrengslin milli Eystra-fjalls (Súlutinda) og Jökulfells (Færinesstinda), og mun mega segja, að Grímsvötn séu nyrzt í honum; en „Síðujökull" er vestar, þ. e. Skaftárjökull eða syðsti hluti hans. — Bls. 177, 8.—9. l., „Provst Jón Þorláksson" o. s. frv. Einar prófastur Hálfdanarson á Kirkjubæjarklaustri hefir einnig skrifað skýrslu um þetta gos; er hún prentuð í „Blöndu", I., 54—9. Hún er dagsett 7. Júlí 1729; er mjög einkennilega orðuð. — Bls. 178, 8. l. a. n., „sig", ehr. „dem". — Kemur víðar fyrir. — Bls. 180. „1772 (Nordsiden af Partiet)" o. s. frv. Gosið var 1774 (ekki 1772), í Febrúar. Það virðist hafa verið við Grímsvötn eða í nálægari eldstöðvum, suðvestar, því að hlaup kom í Súlu (Súluá) Sæmundur Magnússon Holm hefir ritað um þetta gos. Sbr. Þorv. Thor., Gesch. d. isl. Vulk., bls. 85. — Árið 1766 virðist einnig hafa verið gos í Vatnajökli, nokkru vestar, því að þá kom hlaup í Tungná. Sbr. s. st. — Bls. 181. „1784. Skeiðarárjökull". Gos þessi virðast hafa verið byrjuð í Maí 1783 og þeirra varð vart enn 2 árum síðar. Séra Jón Steingrímsson getur helzt um þau í riti sínu um Síðu-eld, sbr. Safn t. sögu Ísl., IV., og Þorv. Thor., Gesch. d. isl. Vulk., bls. 85—86. — Þau virðast einnig hafa verið á sömu slóðum og gosið 1774. — Bls. 182, 1.l., „Siden denne Tid" o. s. frv. Veruleg gos virðast hafa verið í vesturhluta Vatnajökuls 1787, 1797, 1823 og 1838, og eftir daga Jónasar mjög oft, sennilega nær 20 sinnum, alveg fram til þessa

tíma. Eru þessar gosstöðvar í vesturhluta Vatnajökuls, við Grímsvötn (sem hann mun hafa dregið nafn af) og þar suðvestur-undan, þau eldvörp hér á landi, sem á síðari tímum hafa látið langoftast bera á sér. Mynda þau framhald af Eldgjá, Varmárdal og Laka, en hins vegar eru Kverkfjöll, Askja, Dyngjufjöll, Leirhnúkur o. fl. — 20. l. a. n., „Vi har haft hans Beretninger“ o. s. frv., nefnilega 1842; hann keypti þá ferðabækur Sveins í Vík handa Bókmenntafélaginu og flutti þær með sér á ferð sinni austur í Múlasýslur. Sbr. við þessa skrá á bls. 182—87 „Blöndu“, I., 33—51. — Bls. 183, 5. l. a. n., „Breiða- eller Breiðár-mörk“ o. s. frv., sbr. „Blöndu“, I., 33—4 og 49, og II., 259—60, og e. fr. IV., 147—48. — Bls. 184, 10.—11. l., „en Lærd, som længe havde været Præst“; í uppskrift sína hefir J. Sig. sett þessa skýring nm.: „Líklega séra Vigfús Benediktsson, pr. í Einholti 1775—87; að Kálfafellsstað 1787—1802. † 1822, 91 ára gamall“. — 15. l. a. n., „Krossholt“ o. s. frv. Máldagarnir eru í Fornbrs., I., 248—49 (Rauða-lækjar, frá 1179), og II., 774—75 (Hofs, frá 1343). — 6. l. a. n., „Papýli“ o. s. frv.; nafnið hefir upprunalega verið Papabýli. Í Landnámabók er getið um 2 bæi þar, Breiðabólstað og Hof, sem hér er nefnt og óvíst er, hvar verið hefir; hinn bærinn mun vera sá, er svo heitir enn á Síðu; virðist hún öll hafa heitið Pap(ab)ýli fyrrum, eða austasti hluti hennar að minnsta kosti, tungan milli Geirlandsár og Breiðbælakvíslar að vestan og Hverfisfljóts að austan. Sbr. Kr. Kål., Isl. Beskr., II., 276—77 og 314. — Bls. 185, 8. l. a. n., „Jökulfell“ o. s. frv. Fellið og bærinn hétu einnig fyrrum Jökulsfell. Sjá um bæ þennan og kirkjustað í „Blöndu“, I., 38 og 43, og II., 267—68. — Þar er nú enn eftir hinn fagri Bæjarstaðar-skógur, kenndur við bæjarstaðinn, þar sem Jökul(s)fell stóð. — Bls. 186, 3. l.; „Rauði-lækur“ o. s. frv., sbr. bls. 173, m. aths., og Fornbrs. I., 244—49. — 11. l., „Eyrarhorn“; bréf Magnúsar biskups Eyjólfssonar um lönd, reka og ítök Eyrarhorns er prentað í Fornbrs., VI., 442—43. Magnús biskup dó 1490. — Bls. 187, 2. l., „Måldage“ o. s. frv., þ. e. Hofskirkju-máldagi, er Michael biskup setti 1387; hann er í Fornbrs., III., 401. — Nmgr.: Skrá Ísleifs sýslumanns er prentuð (síðast) í „Blöndu“, I., 42—51. — Bls. 188, 19. l., „Dålkur“ o. s. frv. Máldaginn, sem Jónas á við, er máldagi Kirkjubæjar-klausturs, sem er prentaður í Fornbrs., IV., 238—39; hann er prentaður þar eftir handr. nr. 263 í abr. í Árnasafni; í því handr. stendur „af dalbæ“, en ekki „af dalki“, sem er í nokkrum öðrum handritum fyrir mislestur. — Bls. 189, 18. l., „Lundur, en Kirkestad“; sbr. Árb. Fornlfél. 1909, 3—9, og 1910, 28—32. — „Rauðu-kambar, 1343“ o. s. frv. Greinin

byggist á árb. Esp., I., 78 (upphaf LX. kap.), en Espolin hefir tekið þessa klausu úr biskupa-annálum séra Jóns Egilssonar (sjá Safn t. sögu Ísl., I., 32—3). Espolin setur ekki ártalið 1343, en segir, að gosið hafi orðið „þessi missiri er nu var gétit“ og liggur beinast við að skilja það svo, að hann eigi við árið 1343, því hann hefir þá nýlokið við að tala um atburði þess árs. En séra Jón gaf alls enga ástæðu til að heimfæra gosið til ársins 1343; hann segir, að það hafi orðið „á fyrri tímum, mjög snemma, eg þenki í tíð þessara biskupa“, sem hann þá er nýbúinn að nefna og voru á tímabilinu 1322—48, og bætir við: „en hve nær það skeði sérlega, veit eg ekki datum“. Þorv. Thoroddsen rannsakaði Fossárdal og Rauðu-kamba 1888 og birti árangurinn í Andvara, XV., 60—76. Kemst hann þar svo að orði um Rauðu-kamba m. a.: „Þegar maður skoðar Rauðukamba, er auðséð, að þeir aldrei hafa gosið; það eru — — líparit-hryggir mjög gamlir og enginn vottur fyrir eldsumbrotum“. Og hann bætir við: „Ekki gat eg heldur séð nein merki þess, að annarsstaðar hefði gosið í dalnum síðan á landnámstíð“. Hann leiðir rök að því, að (Fossárdalur og) Þjórsárdalur „hafi eyðst af Heklugosum, líklega mest af gosinu 1341 (sjá bls. 75—77 hér fyrir framan), en hefir þó líklega verið töluvert skemmdur af eldri gosum (t. d. 1294 og 1300)“ o. s. frv. Espolin telur einnig, að gosið 1341 hafi orðið 1343 og hefir farið þar eftir ritgjörð Hannesar biskups Finnssonar „um mannfækkun“ í félagsritunum gömlu, XIV., 57.

*Bls. 190—200.* — UM LANDSKJÁLFTA Á ÍSLANDI. — Hr. í nr. 11 í abr. í hrs. Bmf., skrifað af sama manni og eldfjallasagan, sem er þar á undan, en nokkrir viðaukar í auðu dálkunum og töluverð viðbót aftast er með hendi Jónasar sjálfs. Greinin er á bls. 109—22 í bókinni. Hún er að sjálfsögðu nátengd ritgerðinni um eldfjöllin og eldgosin, og Jónas hefir einnig lagt þessa grein út á dönsku og tengt hana við þá ritgjörð, sem er hér fyrir framan (bls. 68—190). Sú útlegging verður þó ekki prentuð hér með dönsku eldfjallasögunni, heldur þessi grein svo sem hún er á frummálinu, með fram af því að inngangurinn er í henni nokkru efnisríkari að sumu leyti. En þar sem danski inngangurinn að öðru leyti er merkilegur, virðist ástæða til að sleppa honum ekki alveg úr þessari útgáfu. Hann er á þessa leið:

„Jordskælv i Island er vistnok hverken saa hyppige eller voldsomme som man skulde formode, saavel af Landets aldeles vulkanske Karakter som ifølge almindelig, for længe siden antaget Opinion. Men dette Fænomen kan forklares deraf, at de hyppige Udbrud, de utallige Hverer og varme Kilder, Svovl-

minerne og i det hele taget Grundens forrevne og gennembrudte Tilstand, giver de bevægende Kræfter mangfoldige og uafbrudte Lejligheder til at undslippe uden Voldsomhed og saa godt som ubemærkede. Imidlertid er Jordskælvene der ingenlunde sjældne eller ubetydelige, endskønt forholdsvis faa opregnes i de Efterretninger, som derom haves; men dette ligger deri, at de svagere Stød bliver ikke videre bemærkede og glemmes derfor snart igen. Landet selv viser, at der i tidligere Tider, efter at det i det væsentlige havde antaget sin nuværende Form, har raset saa voldsomme Rystelser, som man nu næppe kan gøre sig Begreb om; nedstyrdede Tinder og Bjergsider, ja hele Fjælde, utallige, undertiden flere Mil lange Kløfter, store Sænkninger af Grunden, og saa meget andet, er sikre Beviser derfor.

Jordskælvene er ingenlunde lige for det hele Land, og i Regelen er det sjældent, at andre end Tufegnene berøres stærkt af dem, navnligen disse Egnes sydvestlige Del. Man kan med Føje betegne et Bælte i Retningen fra Hekla og Geysir-Egnen mod Sydvest over den Bjergkæde, som adskiller Guldbringe- og Arnæs-Sysseler, udover Krýsuvík, som det egentlige Jordskælv-Terrain, hvori Egnene Grímsnes, Flói og i Særdeleshed Ølves lider mest. Efter Stødets Voldsomhed udbreder det sig naturligvis videre, men overskrider næsten aldrig den Bjergrække, som gaar mod Vest fra det indre Højland ud paa Snæfellsnæsset og adskiller Faxe- og Brede-bugten, undtagen ved stærke Udbrud af Hekla, da det undertiden berører det hele Land. Undertiden bemærkes ogsaa lokale Rystelser indenfor det betegnede Terrain, saaledes at f. Eks. Ølveset alene bliver stærkt rystet. Stødets Retning synes altid at være østlig, fra Øst eller Nordøst. Tufegnene østen for Hekla rystes ogsaa undertiden voldsomt nok, mest under Eruptioner af de tilgrænsede Vulkaner, men slige Stød forplanter sig sjælden langt og mest mod Vesten, naar det er Tilfældet, og da norden om Eyjafjallajökull, som om de ikke mægtede at bevæge denne uhyre Masse; saaledes er det flere Gange sket, at Fljótshlíðen under Udbrud af Katla har lidt af Jordskælv, medens intet er mærket dertil i Øfjældsbygden (undir Eyjafjöllum), som omgiver Jokulens sydlige og vestlige Rand, endskønt den ligger midt imellem Fljótshlíðen og Stødets Udgangspunkt. — En anden Jordskælvkreds berører Nordlandet, men Virkningen kan der ikke komme i Sammenligning med Sydlandets Rystelser. Det er ikke sjældent, at det Parti, som ligger imellem de tvende Bugter Skjálfandaflói og Húnaflói, bliver berørt af Jordskælv, uden dog at være udset for voldsomme Rystelser, og Bevægelsen gaar næppe nogensinde

dybt ind i Landet. Stødets Retning synes ogsaa her at være Nordøst mod Sydvest og Udgangspunktet at ligge maaske langt uden for Landets Grænser. Vester- og Østerlandet er mindst udsatte for Jordskælv og mærker sjælden noget dertil, undtagen en enkelt Gang under voldsomme Eruptioner; dog er der lokale Bevægelser ikke uden Eksempel.

Vi vil paa dette Sted søge at give Oversigt over de Jordskælv, som har truffet Island i dets historiske Tid, og ønsker at den maa blive saa fuldstændig og paalidelig som de Efterretninger tillader, der endnu haves angaaende disse Tildragelser".

Skráin um landskjálftana er vitanlega prentuð hér svo sem hún er í hr., umbætt og aukin, en í eftirfylgjandi aths. verður bent á þá viðauka og leiðréttingar, sem koma fram í útleggingunni.

Bls. 193, 13. l. a. n., „Qvító" o. s. frv. Quito (frb. Kító) er höfuðborgin í ríkinu Ecuador í Suður-Ameríku. — Hér er átt við árlegan meðalhita þar, en raunar er þar meðalhiti hverrar árstíðar fyrir sig nær alveg jafn, rúmar 12° C. En daglegar hitabreytingar eru þar mjög miklar. — „Boug[u]er", þ. e. Pierre Bouguer (frb. Búgge) var frakkneskur stærðfræðingur og eðlisfræðingur (f. 1698, d. 1758). — 9. l. a. n., „Humboldt"; Alexander v. Humboldt fór 1799 í mikla frægðarför til Ameríku og var á því ferðalagi til 1804. Hann kom til Quito 6. Jan. 1802. — Bls. 194, 13. l. a. n., „*hóla*" o. s. frv.; nú mun álitið, að flestir slíkir hólar stafi frá ísöld, séu jökulurðir. — Bls. 195. „*1113*" o. s. frv. Jónas hefir haft þessa grein fyrst óbreytta í útleggingunni, en breytt henni, eftir að hann hafði fengið annálsarkirnar (sbr. bls. 309) og séð, hvað sagt var að stæði þar í hr. G., nr. 411 í 4 bl. br. í Árnasafni, nefnilega, að þessi landskjálfti hefði orðið 1013. J. Sig. hefir ritað aths. við þessa málsgrein, á dönsku í danska frumr., utanmáls, og á íslenzku í uppskrift sína, svolátandi: „Þetta er rangt árfært í G., og heyrir að réttu lagi til 1181 og 1182, svo þessi jarðskjálfti fer úr tölunni". Er þetta vitanlega laukrétt hjá J. Sig. Er undarlegt, að Jón Halldórsson, síðar prófastur í Hitárdal, sem sett hefir saman hr. G á unga aldri eftir Skálholts-annál og Nýja-annál, skyldi skrifa þennan viðburð, og jafnframt tvo aðra m. fl., við þetta ár, því að hann hefir einnig, í sama hr., skrifað þá við árið 1181, — sem að vísu var ekki alveg rétt heldur, að því er snertir landskjálftana, því að frumritin höfðu sett þá við 1182; það ár voru þeir, og er þeirra getið bæði í Biskupa-sögum (I., 425) og Sturlunga-sögu (I., 142); segir þar: „Þá um vetrinn aðr (þ. e. fyrir Grasleysusumar) andaðisk Valdimarr konungr í Danmörk, sonr Knuts

konungs, ok þann vetr urðu landskjálftar (miklir), ok tyndusk XI menn af því". — Valdimar konungur dó 12. Maí 1182, en höf. hefir haldið, að konungur hafi dáið fyrir vetrarlok. — *„1181 og 1182"* o. s. frv., sjá síðustu aths. Í útleggingunni hefir Jónas fyrst haft ártalið 1181, en breytt því síðan í 1182 og skotið inn tveim greinum: „1151. Annales regii og Flateyenses med flere beretter, at Jordskælv indtraf dette Aar som ledsagende et vulkansk Udbrud i Trölladyngjur, tilligemed en stor Dødelighed; det næste Aars Vinter kaldes ogsaa i Annalerne Sygdomsvinter („sóttarvetur"). — 1164 beretter Annales regii at Jordskælv indtraf i Grimsneset, hvorved 19 Mennesker omkom. De saakaldte Laugmands-Annaler henfører denne Begivenhed til 1165". — Um gosið og landskjálftana 1151 sbr. bls. 164. Um landskjálftana 1164 er getið í Bisk.-s. (I., 416) og Sturlunga-s. (I., 130), og sagt, að farizt hafi 18 menn. — Flateyjar-annáll og Odda-annáll geta einnig þessara landskjálfta. — *„1211"*; landskjálftanna þá er getið í sögu Páls biskups (Bisk.-s., I., 144—45) og sagt, að þeir hafi verið „hinn næsta dag fyrir Seljumannamessu, þ. e. 7. Júlí; eru þeir taldir hafa verið kvíðbjóður náttúrunnar, einn af fleirum, er farið hafi fyrir fráfalli hins dýrlega höfðingja, Páls biskups; „jörðin skalf öll ok pipraði af ótta". Biskupinn dó 29. Nóv. — Jónas hefir bætt þessu við í útleggingu sinni: „Vinteren var mild og Sommeren regnfuld"; sbr. „Góðr vetr. Vætusumar" í annálunum. Veturinn sá hefir nú víst verið næsti vetur á undan gosinu. — Landskjálftanna 1240, í sambandi við gosin, sem þá urðu fyrir Reykjanesi (sbr. bls. 168), getur Jónas ekki í þessari ritgerð. Ann. regii segja, að þá hafi verið „landskjálftar miklir fyrir sunnan land". — *„1260"* o. s. frv. Jónas hefir fyrst útlagt þetta nokkurn veginn þannig, en síðan lagfært þetta, og er greinin þannig í danska ritinu: „1260 blev Flatey, en bekendt Ø, som ligger ved Landets Nordkyst uden for den Bjergrække, son adskiller Fjordene Eyjafjörður og Skjalfandaflói, rystet af et voldsomt Jordskælv (se Flatø-Annalen, de gamle Skalholts-Annaler og Papirs-Afskriften Nr. 411 i den Arnamagnæanske Samling); men hvorvidt samme ellers har udbredt sine Virkninger, derom haves ingen Efterretning". — *„1294"* o. s. frv. Eftir tvær breytingar og viðbætur hljóðar grein þessi þannig í útleggingunni: „Annalerne beretter, at i dette Aar indtraf et Jordskælv af den Voldsomhed, at Jorden revnede paa mange Steder i Fljótshlíðen og paa Rangárvallene, saavel som vesten for Þjórsaaen, og Rangaaen (Rangá) forandrede sit Leje, og mange Gaarde blev omstyrtede og Mennesker omkom; i de næste 8 Dage var alt Brøndvand ved

Gaarden Flagbjarnarholt saa hvidt som Mælk. I Eyjarfjall ved Haukadalur (det nu-kaldte Laugafell, hvor Geysir og Strokkur ligger) opkom store Springkilder (Hvere), imedens nogle forsvandt, som der havde været i Forvejen; ved Gaarden Húsatóftir forsvandt til samme Tid den varme Kilde, som der havde været, og der opstod saa dybe Sprækker i Jorden, at man ingen Bund kunde se. Det samme Aar havde Hekla sit 5. Udbrud. Halldór Jakobsen siger, at den Gang rasede Jordskælv over det hele Land". — „*1300*" o. s. frv. Sú grein hefir orðið þannig í útleggingunni: „1300 var Jordskælv igen paa Sydlandet, saa voldsomme, at mange Gaarde blev omstyrtede; jævnf. Kongens og Biskop Thorlaks Annaler. Den Gang havde Hekla sit 6. Udbrud. Flatø-Annalerne og flere andre beretter, at et saadant indtraf Natten imellem den 29. og 30. December, og at Gaarden Skarð (i Nærheden af Hekla) styrtede sammen". — „*1308*" o. s. frv. Í útleggingunni byrjar Jónas greinina þannig (á eftir ártalinu): Alle de islandske Annaler for dette Tidsrum beretter, at da" o. s. frv. — „*1311*" o. s. frv. Þessi grein hefir orðið þannig s. st.: „1311 indtraf ifølge flere Annaler et rædsomt Jordskælv Søndagsnatten mellem Jul og Nytaar. Ifølge Biskop H. Finsens Skrift, „Um mannfækkun af hallærum á Íslandi", styrtede 51 Gaarde sammen ved denne Lejlighed. Til samme Tid var der et Vulkanudbrud, hvis Lokalitet ikke er angiven og hvis Virkninger mest gik ud over Østerlandet". — Sjá um þetta gos bls. 170 (og 100—102), m. aths. hér fyrir framan. — „*1312*" o. s. frv. Jónas hefir í þessari grein að eins skotið inn í útleggingunni orðunum „ifølge Biskop H. Finsens Beretning". — Hér mun um sömu landskjálfta að ræða og í síðustu grein, og að sumu leyti þá, sem voru 1308. — Hannes biskup Finsen segir ekki, að þessir landskjálftar hafi orðið 1312, heldur 1313 (sbr. Rit Lærdómslistafélagsins, XIV., 52—53). — „*1332*" o. s. frv. Sbr. bls. 172, m. aths. (gos í Öræfajökli). Jónas hefir aukið þessa grein allmikið í útleggingunni, síðan dregið strik yfir ártalið og umhverfis greinina; er henni því sleppt hér. — Bls. 196. „*1339*" o. s. frv. Þessi grein er tekin nær óbreytt úr ritgjörð Hannesar biskups, bls. 56, en hann hefir tekið hana eftir annálum. Í útleggingu sinni hefir Jónas breytt henni dálítið, og byrjar hún þar þannig: „I dette Aar indtraf ifølge samtlige Annaler det store Jordskælv den 21. Maj". — 22. Maí mun réttara (· X · kal. Junii, Flat.-ann., er skýrir greinilegast frá þessum landskjálfta). Aftan-við setninguna um hverinn í Henglafjöllum hefir Jónas bætt við í útlegginguna: „(Denne Hver eksisterer uden Tvivl endnu og er en af Dem, som vi saa der paa vor Rejse i Sommeren 1840)". E.

fr. hefir hann sett þar næst (eftir annálum): „Paa mange flere Steder paa Sydlandet opstod desuden nye Hvere ved denne Lejlighed“. — „*1370*“ o. s. frv. Bætt við í útleggingunni: „En iblandt disse var Hjalli, og 6 Mennesker omkom (se Annales medii ævi, Nr. 423 i den Arnamagnæanske Samling)“. — „*1391*“ o. s. frv. Í upphafið er bætt inn í útlegginguna tilvitnuninni: „ifølge Flatø-Annalerne“; og á eftir setningunni um bæjarhrunið er skotið inn í: „imedens Gaarden Búrfell, Miðengi og Laugardælir styrtede aldeles sammen, med Undtagelse af Kirken paa det sidstnævnte Sted“. Sennilega hafa þessir landskjálftar staðið í sambandi við hið mikla Heklu-gos árið áður; sbr. bls. 77—8. — Fyrir 1552 eru þessu næst kunnir miklir landskjálftar árið 1510, 25. Júlí, er Hekla gaus, sbr. bls. 79—80( og Bisk.-ann. í Safni t. sögu Ísl., I., 45), og árið 1546, er hrundi á Hjalla, sbr. Bisk.-ann., bls. 109—10. — „*1554*“ o. s. frv.; í útl. er skotið inn (í svigum) á eftir fyrstu setningu: „(i den sidste Halvdel af Maj Maaned)“, og í síðustu setningu er bætt við: „hvorfor dette ogsaa regnes blandt Hekla-Udbrudene. Se herom Annálar Björns á Skarðsá“. Þessi síðasta setning er sprottin af vangá eða misminni, sbr. bls. 80; það er séra Jón Egilsson, sem ritað hefir um þessa landskjálfta og gosið (sjá Safn t. sögu Ísl., I., 101), og síðan Jón Espolin eftir honum (árb., IV., 104). — „*1578*“. Þessi landskjálfti varð samkvæmt Gottskálks-annál, 1577, en ekki 1578, eins og stendur í Skarðsár-annál. Hekla brann þá víst ekki, mun það missögn. Sbr. bls. 80, m. aths. — Þessu næst hefði Jónas átt að geta um tvo landskjálfta, sem getið er í árb. Esp. eftir eldri heimildum; hinn fyrri var 30. Maí 1581; féllu þá bæir og fólkið dó; sjá Bisk. ann. í Safni t. sögu Ísl., I., 109, og árb. Esp., V., 42; segir Esp., að sagt sé, að þá „hafi eldur verið í Heklu og Kötlugjá“. Árið áður var Kötlugos, og Sveinn læknir Pálsson hefir ritað, að verið hafi Heklu-gos 1578, sbr. bls. 80, m. aths., en þess finnst annars ekki getið. — „*1597*“ o. s. frv. Í útl. er bætt við frásögninni um Geysi í Hveragerði, sbr. bls. 81: „I et af disse Jordskælv, som indtraf om Foraaret, forsvandt en Hver, kaldet Geysir í Hveragerði, sønden for Gaarden Reykir i Ølveset, og opkom igen en ny Hver (den nuværende Geysir) oven for samme Gaard, under Bjergskrænten“. — Bls. 197. „1614“ o. s. frv. Í Skarðsár-annál og árb. Esp. er getið um þennan landskjálfta 1614; e. fr. má geta þess, að í Efsta-dal í Laugardal er steinn, um 1 al. að lengd, með sléttum fleti á, og er letrað á hann: l a n d : s k i a l p t i : 1 6 1 4. — Í ritum Þorv. Thor., Landskj. á Ísl., bls. 28, og Gesch. d. isl. Vulk., bls. 383, er þessi landskjálfti talinn hafa verið 1613; mun það stafa af misprent-

un. — Við þessar aths. hér hefir verið höfð hliðsjón af þessum ritum. — „*1624*“ o. s. frv. Í útl. er bætt við: „(se Björn á Skarðsá)“; þetta er úr Skarðsár-ann. (I., 218) og árb. Esp. — Jónas getur hér ekki landskjálfta, sem minnzt er lítillega á í Skarðsár-annál (og árb. Esp.), að orðið hafi vart við sumarið 1619 í sambandi við Heklu-gosið þá. Ekki getur hann heldur hinna mannskæðu landskjálfta, sem voru sunnanlands 1630; stóðu viku í Febrúar-lok; sbr. árb. Esp., VI., 45, og Þorv. Thor., Gesch. d. isl. Vulk., bls. 383—84. Í árb. Esp., VI., 65, er einnig getið um landskjálfta haustið 1632, sem ekki eru hér nefndir, og Þorv. Thor. getur um í Gesch. d. isl. Vulk., bls. 384, landskjálfta 1645 og 1646. — „*1657*“ o. s. frv. Annálarnir, sem vitnað er til (Vatnsfj.-ann. og Fitja-ann.) eru nú prentaðir í Ann. 1400—1800, II. og III. b.; sbr. II., 180, og III., 83. Landskjálftinn varð 16. Marz. Um Odd Eiríksson á Fitjum sjá sama rit, II., 1 og áfram. — „fjórum árum seinna“, þ. e. 1661; segir í Fitjaannál, að þeir hafi verið 21. Júní (Ann. 1400—1800, II., 189), en ekki getið hvar; sbr. árb. Esp., VII., 27—28. — Í Vallholtsannál (Ann. 1400—1800, I., 357) segir, að eldur mikill hafi komið upp í „Grindavíkurfjöllum“; var uppi fyrir jól og eftir; það hefði þá átt að vera í Trölladyngju, en þess goss mun hvergi getið í öðrum ritum, og ætlar Þorv. Thor. því, að það hafi ekkert verið, eða að hér hafi að eins verið um Kötlu-gosið haustið áður að ræða (Gesch. d. isl. Vulk., 189, nm.). Árin 1653 og 1663 eiga einnig að hafa orðið landskjálftar á Reykjanesi (sbr. sama rit, bls. 384), og sömuleiðis er getið landskjálfta árin 1664, 1668, 1671, 1681 og 1682 (sbr. sama rit, bls. 384—85). — „*1693*“ o. s. frv.; á eftir þessari grein er bætt við í útleggingunni: „Disse Jordskælv har ifølge [Þorlákur Þórðarson, en Søn af] Biskop Þ. Þorlaksens Beretning anrettet betydelig Skade. Mange Kilder og Bække forsvandt, og andre nye fremkom, som førte afskyelig stinkende og svovlet Vand“. — Bls. 198. „*1724*“ o. s. frv. Sbr. bls. 132 o. áfr. Um sumarið (í Ágúst) kom mikill landskjálfti í Árnessýslu og um Reykjanes; 1710 hafði einnig orðið landskjálfti sunnanlands; sbr. Þorv. Thor., Gesch. d. isl. Vulk., bls. 386. E. fr. er getið s. st. um allmikla landskjálfta sunnanlands árin 1725, 1726 og 1732. — „*1749*“; í útl. er bætt við tilvitnun: „Cfr. Olafsens og Poulsens Rejse, S. [913]“. — Þessu næst urðu landskjálftar 1752 í Árnessýslu, sem ekki eru nefndir hér; sbr. Þorv. Thor., Gesch. d. isl. Vulk., bls. 387. — Bls. 198, 4. l. a. n., til 199, 5. l., „En þótt nóg“ o. s. frv. Þessari grein er sleppt í útleggingunni. — Bls. 200. „*1789*“ o. s. frv. Í útl. er bætt við tilvitnun: „(Biskop H. Finsen)“; er átt við ritgerð

H. F., „Um mannfækkun“ o. s. frv., bls. 187. — Árin 1785 (4. Nóv.) og 1786 (16. Jan.) fundust landskjálftakippir í Viðey (sbr. Þorv. Thor., Gesch. d. isl. Vulk., bls. 393); e. fr. 1797 og 1799 í Rangárvallasýslu, 1802 og 1815 nyrðra, og 1818 og 1825 syðra (sjá s. st., bls. 394). — *„1838“* o. s. frv. Setningunni um grjóthrunið og fuglabjörgin hefir Jónas skotið inn í frumritið, en sleppt henni í útl. — Árin 1828 og 1829 voru allmiklir landskjálftar sunnanlands, í Febrúar bæði árin; sbr. Gesch. d. isl. Vulk., bls. 394. — Kippir fundust einnig í Reykjavík 28. Júlí 1839, en síðan urðu ekki neinir landskjálftar, svo getið hafi verið, fyr en Hekla gaus í September 1845.

*Bls. 203—206.* — BRÉF TIL PRESTA OG PRÓFASTA. — Ug upphaf og undirbúning Íslands-lýsingar þeirrar, er Bókmenntafélagið ætlaði að gefa út, sjá V. b., bls. LXXXV—VI, LXXXVIII—IX o. s. frv. — Frumrit þessa bréfs er enn til í vörzlum Bókmfél. og er ehr. Jónasar, nema af II.—III. í yfirlitinu. Frumpr. er einnig til í vörzlum félagsins, og er bréfið hér prentað eftir því. Sbr. e. fr. Minningarrit Bókmfél. 1816—66, bls. 42—44 og 71—73.

*Bls. 207—214.* — SPURNINGAR TIL PRESTA. — Frumr. (uppkast), ehr. Jónasar og að sumu leyti Konráðs Gíslasonar, með ýmsum breytingum og viðaukum; sömul. er til frumprent, og er þetta hvort-tveggja í vörzlum Bókmfél.; er hér farið eftir frumpr. Sbr. e. fr. minningarrit félagsins 1816—66, bls. 74—78.

*Bls. 214—215.* — SPURNINGAR TIL SÝSLUMANNA. — Frumrit, ehr. Jónasar, er til í vörzlum Bókmfél., og sömuleiðis frumprent, sem hér er sett eftir. Sbr. e. fr. minningarrit félagsins 1816—66, bls. 79. — Af bréfinu, sem fylgdi með, er ekki til frumrit, og er því óvíst, að það sé eftir Jónas, en mestar líkur eru til þess; það er til í frumprenti og er einnig prentað í minningarritinu, á bls. 78—79.

*Bls. 215—220.* — SMÁVEGIS UM LAUGAR OG HVERI O. FL. — *I. Laugar og hverir á nokkrum stöðum.* — Ehr. í nr. 13 í abr. í hrs. Bmf., með fleiri blöðum, sem á eru útdrættir úr ýmsum sóknalýsingum viðv. loftsjónum, veðráttufari og veiðum, sbr. 21.—28. og 33. í spurningunum á bls. 209—11. — Þessar greinar um laugar og hveri eru einnig dregnar út úr sóknalýsingum. — Bls. 216, 10. l., „Gvendar-brunnar“ o. s. frv.; þeir eru báðir kaldir (nú), en lítil laug kvað hafa verið skammt framar í Kópavogi en Gvendar-brunnurinn á Arnarnesshálsi, sbr. Árb. Fornlfél. 1929, bls. 32. — Á öðru blaði í nr. 13 í abr. í hrs. Bmf. eru nokkrar aths. með hendi Jónasar um hita nokkurra hvera erlendis og e. fr. hita Geysis og Reykholtshvers (eftir

ferðabók Mackenzies); eru þessar aths. á dönsku. — Í sambandi við þessa grein skal þess e. fr. getið, að í hr. nr. 8 í 8 bl. br. í hrs. Bókmfél. eru margar aths., sem Jónas hefir skrifað (á dönsku) um ölkeldur á ýmsum stöðum í Snæfellsnessýslu og grennd. Eru þessar sundurlausu aths. dregnar út úr ferðabók Eggerts og Bjarna og ýmsra annara. Þar næst eru í sama hr. aðrar aths., sem ekki koma þessu við (um „Himmelrummets Temperatur", um óbreytta lengd ársins síðan á dögum Hipparkosar, o. fl.). Síðan kemur sú grein, sem hér er næst, bls. 217—18. — *II. Efnasamsetning hveravatns.* — Ehr. í nr. 8 í 8 bl. br. í hrs. Bmf. — Um John Stanley, ferð hans hér og þessar athuganir hans og drs. Josephs Blacks sjá Landfrs. Ísl., III., 135—38; þær birtust í Transactions of the royal society of Edinburgh, vol. III., part 2, bls. 95—153 (árið 1792 og árið eftir í Ann. de chimie). — Klaproth var ágætur, þýzkur efnafræðingur, f. 1743, d. 1817. Hann ritaði mikinn fjölda af ritgerðum um efnafræðisrannsóknir sínar o. fl. og gaf þær síðan út í 6 bindum 1795—1815 með þeim titli, er Jónas tilgreinir. Klaproth kom aldrei hingað til lands. — *III. Geysir og Strokkur.* — Ehr. í K. G. 31 a, á lausri smáörk. — Tilvitnunina, sem hér er neðan-undir yfirskriftinni, hefir Jónas sett neðst á öftustu síðu. Hann hefir sennilega lagt bréf Marmiers út úr þýzkunni, en greinin er lítið eitt, 16 dálklínum, lengri í Frorieps Notizen (Notizen aus dem Gebiete der Natur- und Heilkunde, gesammelt und mitgetheilt von Ludwig Friedrich v. Froriep, funfzigster Band, Weimar 1836, Nro. 1093, Nov. 1836, dálk 227—29). — „Marmier", þ. e. Xavier M., einn af fræðimönnum þeim, er komu með Paul Gaimard hingað í frakkneska vísindaleiðangrinum 1836, f. 1809, d. 1892; var mikill ferðalangur og rithöfundur, enda bókmenntafræðingur og lengi bókavörður í Parísarborg. Hann ritaði sögu Íslands og dálítið um hinar fornu bókmenntir þess, og komu þau rit hans meðal annara rita leiðangursmanna (Historie de l'Islande depuis sa découverte jusqu' à nos jours og Littérature islandaise). — „Villemain", þ. e. Abel V., frakkneskur bókmenntafræðingur og stjórnmálamaður, f. 1790, d. 1870. — 9. l. a. n., í meginmálinu, „hæð", þ. e. Lauga(r)-fell(-fjall); hverirnir eru að suðaustanverðu við rætur fjallsins og þó nokkru hærra en sléttlendið umhverfis. — 5. l. a. n., í meginm., „Bláfjall", þ. e. Bláfell, svo sem það mun oftast nefnt nú, við Hvítárvatn; jökull er enginn á því, en snjór hefir sjálfsagt verið allmikill á því, er þeir Marmier voru við Geysi, síðast í Júní. — Það er raunar ekki ólíklegt, að Marmier eigi hér við Bláfellsjökul, en alls ekki Bláfell; Bláfellsjökull er útnorður frá Bláfelli og er suðaustur-

hluti Langjökuls eða áfastur við hann, eftir því, hvernig á það er litið. — 1. l. a. n., í meginm., „16 metrar á breidd og 22 metrar á dýpt“; átt er við þvermál skálarinnar, sem er umhverfis opið, mælt um barm hennar, og dýpt gospípunnar niður frá botni skálarinnar; er þetta þverm. 18 m. og dýptin 24½ m.; sbr. Þorv. Thor., Gesch. d. isl. Vulk., bls. 313. — Bls. 219, 3. l., „alla hæðina“, þ. e. Lauga(r)fell, en raunar eru hvergi hverir á því sjálfu, heldur á Söndunum, er svo kallast, og er það að eins tiltölulega lítið svæði suðaustan-undir fellinu. — Bls. 220, 7. l., „meir en 40 álnir á hæð“; það var mælt og var 90 fet. — Næsta sumar kom Jónas að Geysi og Strokk, sjá III. b., bls. 43—55.

*Bls. 220.* — VÖTN Á SANDHEIÐUM. — Ehr. í nr. 8 í 3 bl. br. í hrs. Bmf. — Sandheiðar eru kenndar við Stóra-sand, sem í daglegu tali nefnist Sandur. Í rauninni mun hér átt við Eyvindarheiði og Kúluheiði, er fyllra nafni heitir Auðkúluheiði, eins og hún er nefnd á Íslands-uppdrætti Bókmenntafélagsins, þar sem einnig eru sýnd nokkur þeirra vatna, sem hér eru nefnd. Auðkúlustaðaheiði hefir hún einnig verið kölluð, fram á 17. öld að minnsta kosti, og er það nafn vissulega elzt. Bæjarnafnið Auðkúla er stytting, sbr. Landnámabók. — Heiðin er „millum Blöndu að austan og stefnunnar úr Svínadalsá upp í Búrfjöll að vestan, en takmörk hennar eru óviss að sunnan“, segir í sóknarlýsingu Auðkúlusóknar frá 1857 (í hrs. Bmf., nr. 21 í abr.). Með sóknarlýsingu sömu sóknar frá 1873 (nr. 71 í abr.) fylgir lýsing á heiðinni eftir Björn Bjarnarson á Brandsstöðum, og er útdráttur úr henni í Ferðabók Þorv. Thor., II., bls. 208—10. — „Þórarinsvötn tvenn“ (þ. e. tvö) eru í lýsingu Björns sögð vera „utar á heiðinni“ en þau vötn, sem hér eru talin á Kúluheiði, og öll eru nefnd í lýsingunni, og sögð vera á þeim hluta heiðarinnar, er þar kallast Útheiðin, — á henni miðri, „mið heiðinni“. — Friðmundarvötnin eru tvö, eystra og vestra; kennd við Friðmund í Forsæludal (sbr. Landnb.). — „Galtarbólsvatn“ nefnist í sóknarlýsingunum að eins Galtarból, en það er röng stytting. — „Eyvindarheiði“, eða Eyvindarstaðaheiði, er á milli Svartár og Blöndu, á móts við Auðkúluheiði; um hana endilanga liggur Kjalvegur og eftir henni fellur Galtará (sbr. bls. 257), en Sandvegur á ská yfir heiðina norðan-við Þingmannaháls, sbr. I. b., bls. 25, m. aths. — „tvö vötn önnur“ munu vera Aðalmannsvötn, sbr. bls. 258 og uppdrátt Bókmenntafélagsins.

*Bls. 221.* — HNATTSTAÐA ÍSLANDS OG FORNAR LEIÐARVÍSANIR. — Ehr. í nr. 13 í abr. í hrs. Bmf., skrifað á litla grápappírsörk. Hefir átt að vera upphaf ritgerðar, ef til vill landlýsingarinnar í „Íslands-lýsingu“ þeirri, sem Bókmennta-

félagið ætlaði að gefa út. — Allur síðari hluti greinarinnar, sem hér er með smærra letri, er tekinn úr 1. kap. Landnámabókar, sennilega eftir útgáfu Fornfræðafélagsins í Höfn 1843 (Ísl. sögur, I. b., bls. 25—26). Málsgreinina „Af Hernum“ o. s. frv., sem er í Hauksbók (og Melabók), hefir Jónas tekið upp, en hún er í útg. sett neðanmáls meðal frábrugðinna leshátta. Hún er ekki í Sturlubók, en sett í Hauksbók fyrir þá málsgrein, sem hér er næst á undan, „en ef siglt er úr Björgvin“ o. s. frv.; en Hernar (Hern, Herna), eyin Herðla, eru skammt (22,6 km.) útnorður frá Björgvin. — Setningin næst á undan, „frá Snæfellsnesi“ o. s. frv., er einnig úr Sturlubók, svo sem hún er hér; hún er öðruvísi og ekki rétt í Hauksbók (og Melabók). — „Svalbarða“; hann fannst 1194, segir í fornum annálum. Hann er eflaust á austurströnd Grænlands, sennilega strandlengjan milli 68 ° og 70 ° nbr. (Kangerdlugssuaq og Scoresbysunds). — Að ekki hafi verið meira en „dægursigling til óbyggða á Grænlandi úr Kolbeinsey“, það nær engri átt. — Sbr. e. fr. um alla þessa grein í Landnámabók ritgerð Finns Jónssonar í Geograf. Tidsskr., 29., 80—89. — Um Kolbeinsey sjá I. b., bls. 123—124, m. aths.

*Bls. 221—302.* — KAFLAR ÚR 2 ÞÁTTUM TIL „ÍSLANDS-LÝSINGAR“. — Ehr. í nr. 27 í 4 bl. br. í hrs. Bmf. — *I. Úr þætti um vatnsföll;* þessi kafli er skrifaður á 5 kver (legg), hvert með 6 örkum, en nú vantar 4 arkir í 4. kverið; hafa þær sennilega verið alauðar og því teknar úr. Á hverri síðu eru 2 dálkar, en á flestum er annar auður, og geta skrifaðir dálkar ekki talizt fleiri en 96. Framan-við er sérstakt blað og skrifað á það: „*Vatnsföll.* — Rennandi vötn: fljót, ár, lækir. — Til Íslands-lýsing[ar]. I. deild. Landlýsing“. — Yfirskriftir þær, sem hér eru í útg., eru ekki í ehr. — Kaflar þessir byggjast á sóknalýsingum prestanna, svörum þeirra við hinni 19. af spurningunum til þeirra, sbr. bls. 209. Það, sem hér er á bls. 221—223, er úr sóknarlýsingu Skeggjastaða-sóknar eftir séra Hóseas Árnason, rituðri í Desember 1841; 224. bls. og 225. bls. hálf eru eftir sóknarlýsingu Hofs-sóknar eftir Guttorm prófast Þorsteinsson á Hofi í Vopnafirði, skrifaðri í Ágúst 1840, og skráin á bls. 225—229 um ár, er falla í Jökulsá á brú, er eftir sóknarlýsingu séra Sigfúss Finnssonar í Hofteigi, dags. 30. Des. 1840. — Bls. 222, 25. l., og 223, 13. l., „Hölkná“; séra Hóseas og Jónas rita „Hólkná“; réttara er að rita nafnið svo sem hér er gjört. Sbr. e. fr. bls. 229, m. aths., og III. b., bls. 256, m. aths. — Bls. 223, 9. l.; „Dalhúsaá“ mun nú kölluð Dalshúsaá, og kotið (10. og 15. l.) Dalshús. — Bls. 224, 3. l.; Selá rennur mót norðaustri út Selárdal. — 7. l., „Vesturá“, „Vesturárdal“; á uppdrætti Bók-

menntafélagsins nefnist dalurinn „Vestradalr“ (f. Vestri-dalr) og áin „Vestradalsá“. Nú er áin nefnd Vesturá og dalurinn Vesturárdalur, en Skógalón er kallað Núpslón. — 4. l. a. n.; „Gljúfrá“ mun nú nefnd (af sumum a. m. k.) Gljúfursá, og dalur sá, er hún fellur um, Gljúfursárdalur; en gljúfrin eru 3, og mun nafnið Gljúfrá (fyrir Gljúfraá) réttara. — Bls. 225, 20. l.; „Jökulsá á brú“ (ekki Brú); sbr. Kr. Kål., Isl. Beskr., II., 203. Í Þorsteins sögu hvíta (Austf. s., bls. 10) er ritað „at brú“, og í einu hr. „á brú“. — Oft er áin nefnd Jökulsá á Dal (þ. e. Jökul(s)dal). — Bls. 226, 5. og 13. l.; „Gljúfurkvísl“ og „Jökulkvísl“ nefnir séra Sigfús ekki, en Kverká og Kreppu í þeirra stað, að því er virðist, en þær ár falla í Jökulsá á Fjöllum. Hefir Jónas haft hér fyrir sér aðra, réttari heimild, nefnilega ferðabók Sveins Pálssonar frá 1794; sbr. Ferðabók Þorv. Thor., III., 279 (aths. 2 nm.). Gljúfurkvísl er ekki sýnd á uppdrætti Bókmfél., enda er hann ónákvæmur á Brúaröræfum; hún er ekki heldur sýnd á lauslegum smáuppdrætti, sem er í riti D. Bruuns, Ved Vatna Jokulls Nordrand, Kh. 1902, bls. 7 (sérpr. úr Geograf. Tidsskr.). — 9. l. a. n., „Jökulsárdalur“, þ. e. allur sá dalur, sem Jökulsá rennur eftir. — 5.—6. l. a. n.; „Hvammá, sem svo er hér nefnd eftir sóknarlýsingunni, heitir réttu nafni Hvanná. — 18. l., „bærinn“, þ. e. Hjarðarhagi. — 20.—21. (og 26.—27. l.); „Rjúkind“ virðist afbökun úr Rjúkandi (kvk.), sem nú mun venjulega sagt. — 2. l. a. n., „vestar“, réttara „sunnar“. — Bls. 228, 7.—8. l., „Vesturdalsá“ og „Laugarvallaá“ falla saman og verður úr þeim Reykjará. — „Vestur-árdal“; réttara mun (sbr. árheitið) „Vesturdal“. — 13. l., „Trébrú“, les „trébrú“. — 9.—13. l. a. n., „Hefilsdals“, „Hefla“ o. s. frv. Séra Sigfús hefir ritað svo og Jónas haft nöfnin þannig eftir honum, en réttu myndirnar af þessum nöfnum eru eflaust Hnefilsdals, Hnefla (stytting fyrir Hnefilsdalsá) o. s. frv., upprunalega Knefils- og svo ritað á uppdrætti Bókmfél. (sbr. einnig Landnb.). — Hefði farið betur á að leiðrétta þessi nöfn öll (og fleiri, sem hér eru röng) þegar í textanum. — 8. l. a. n., „merki“, les „Merki“. — 4. l. a. n., „Sauðá, Leiðará og Garðá“, eðlilegra „Leiðará, Sauðá og Garðá“. — Bls. 229, 3. l., „Hölkná“, sbr. bls. 222, m. aths.; séra Sigfús ritar Höltná (Jónas „Holtná); á uppdr. Bókmfél. er nafnið á þeim ám, er svo heita, ritað Hólkná, enda mun hvort-tveggja (hafa verið) sagt, „Hölkná“ og „Hólkná“, en réttara er „Hölkná“. — 6. l., „Hrafnkela“, stytting fyrir Hrafnkelsdalsá. — 8. l., „Grjótá“; hún fellur í Þuríðarstaðaá. — 9. l., „Dysjará, Smjörtungudalsá og Sauðá“; eðlilegra væri „Smjörtungudalsá, Dysjará og Sauðá“. — Bls. 230, 13. l. a. n.,

„héraðssandana“, svo ehr., en þetta orð hefði átt að rita með stórum upphafsstaf, því að hér mun í rauninni um eiginnafn (örnefni) að ræða. — Bls. 230—232; kaflinn um Lagarfljót og þær ár, sem nefndar eru á bls. 232 ofan-til, er eftir sóknarlýsingu séra Benedikts Þórarinssonar á Ási í Fellum frá 1840 (fylgibréfið dags. 30. Sept.). — Bls. 231, 8. l., „Kirkjubæjarfossi“; svo heitir fossinn, og var tilhæfulaust að mynda nafnið Lagarfoss, enda mun það ekki hafa átt að verða annað en skipsnafn. Sem nafn á fossinum í Lagarfljóti á það alls engan rétt á sér; er fossinn einnig langt fyrir neðan Löginn, og algjörlega rangt að kenna fossinn við hann. — 17. l., „Steinavað“, svo ehr., en rétt er „Steinsvað“; það er undan Stóra-Steinsvaði, kennt við stein þar í fljótinu. Annað vað heitir Litla-Steinsvað, undan bænum, er svo heitir. — 20. l., „Einhleypingsvað“; þar er nú brú yfir fljótið. — 7. l. a. n.; vað er undan Döguðargerði og annað undan Rangá, á ferjustaðnum, þar sem fljótið er mjóst á kafla. — Kaflinn um árnar á bls. 232, neðan-til, 233 og 234, ofan-til, er eftir sóknarlýsingu Stefáns prófasts Árnasonar á Valþjófsstað frá 1840 (fylgibr. dags. 15. Okt.). — Bls. 232, 11. l., „Ormstaðaá“, svo ehr.; hún heitir „Ormarsstaðaá“. — 15. l., „Hrafngerðisá“, svo ehr.; „Hrafnsgerðisá“ heitir hún. — „Hengifossá“, sbr. III. b., bls. 249 og 255. — Bls. 234, 11. l. a. n., „Víðirgröf“, svo ehr.; rétt „Víðirgróf“. — Bls. 235, 3. l., „Geitadalsá“ er nú kölluð „Geitdalsá“; sbr. nafnið á dalnum (í 6. l.). — Kaflinn á bls. 234, neðan-til, og á bls. 235 er eftir sóknarlýsingu séra Engilberts Þórðarsonar í Þingmúla, dags. 24. Jan. 1843, en að sumu leyti (um Grímsá, á bls. 235) eftir sóknarlýsingu Vallanessóknar eftir Guttorm prófast Pálsson; eftir henni er einnig það, sem er efst á bls. 236; en næsti kafli, yfir á miðja bls. 237, er að sumu leyti úr sóknarlýsingu Eiðasóknar eftir séra Bergvin Þorbergsson, dags. 16. Des. 1841, og að öðru leyti eftir sóknarlýsingu Hjaltastaðar-sóknar eftir séra Jón Guðmundsson, dags. 31. Des. 1842; eftir henni er framhaldið hér, aftur á miðja bls. 238. — Bls. 235, 11.—12. l. a. n., „Jóku“, les „*Jóku*“; það nafn mun vera latnefni fyrir Jórunnardalsá; líkt er ástatt með dalsheitið, en stytting þess hefir valdið afbökunum („Þórudalur“, „Þórdalur“). — 8. l. a. n., „Hvíná“; réttara (upprunalegra) virðist „Hviná“ (sbr. hvinur, hvingras); nú kvað hún vera kölluð „Víná“ (!). — Bls. 237, 8. l. a. n., „Gerðisá“ er kennd við Hlaupandagerði, sem nú heitir (síðan 1914) Þórsnes. — 6. l. a. n., „Hölkná“; séra Jón og Jónas rita „Höltná“; sbr. bls. 229, m. aths. — 4. l. a. n., „Bjarglandsá“; það af henni, sem fellur ofan Hraundal, heitir (nú) Hraundalsá. Eftir að Hölkná og Hraun-

dalsá hafa fallið saman, heitir vatnsfallið Bjarglandsá. — Bls. 238. Í því, sem sagt er um Njarðvíkurá og Fjarðará (þ. e. Borgarfjarðará) er farið eftir sóknarlýsingu Desjarmýrarsóknar eftir séra Snorra Sæmundsson. — Kaflinn um árnar í Húsavík og Loðmundarfirði, á bls. 239—40, er úr sóknarlýsingu Klyppstaðarsóknar eftir séra Guðmund Erlendsson, eða og aðstoðarprest hans, séra Jón Jónsson Austfjörð; hún er dags. 18. Jan. 1842. Næsti kafli, um árnar í Seyðisfirði og Mjóafirði, er eftir sóknarlýsingu séra Einars Hjörleifssonar á Dvergasteini, dags. 19. Okt. 1840. Greinin um árnar í Norðfirði er eftir sóknarlýsingu séra Benedikts Þorsteinssonar, dags. 1. Okt. 1841. — Bls. 240, 3. l., „Gunnhildará"; hún rennur í Húsavíkurá (sbr. bls. 239), en ekki í Fjarðará; hefði þessi smágrein því átt að vera framar (á bls. 239). — 6. l., „Þjófá", les „Þófá". — 7. l., „Hrófadalsá", ehr. „Hrófardalsá", en rétt mun „Hrævadalsá". — 8. l., „Arnarstaði", ehr. „Arnastaði", og svo ritaði séra Guðm. Erlendsson, enda var svo ritað ætíð áður. Nú er bærinn nefndur Árnastaðir (sbr. Árb. Fornlfél. 1923, bls. 92). — 13. l., „Kálfafells-", svo ehr., fyrir „Karlfells-", sbr. bls. 239, 4. l. a. n. — 18. l., „Hrauná ytri"; hún kallast nú Litla-Hrauná. — 6. l. a. n., „Stórfiskjará"; hún kallast nú Stórfiskjarlækur. — Bls. 241, 11. l.; „Strandarfjall" og „Snjófjall" kallast nú Strandartindur og Snjófell. — 16. og 18. l., „Sandfells", svo ehr.; rétt „Sauðfells". — 21. l., „Dalsafrétt", svo ehr.; rétt „Dalaafrétt". — Bls. 242, 1. l., „Brekkuá" mun nú (oft) kölluð Borgareyrará. — 3. l., „Hesteyrardalsár" o. s. frv. Rétta nafnið á eyrinni og bænum er Heseyri, sbr. Árb. Fornlfél. 1923, bls. 93. — 4. l., „Miðfjall" mun nú kallað Miðfell. — 7. l., „Hvannstaðafjalls", svo ehr.; rétt „Hvannstóðsfjalls". — 14. l., „Hvítá"; þær eru 2. — 15. l., „Árnessá", „Árnessdal"; „Arnessá" og „Árnessdal" ehr. Séra Einar ritar „Arnessá" og „Arnessdal". Áður var ritað „Ársness-" og „Ásness-" í þessum nöfnum, en nú er ritað „Askness-", en líklega er það ekki rétt. — Smáárnar í Hellisfirði og Viðfirði eru kenndar hvor við sinn fjörð, og sömuleiðis lítil á, sem er í Sandvík, en oft er hún nefnd Selá. Í Hellisfjarðará rennur ofarlega önnur á, er nefnist Kvígildisá í daglegu tali, en mun heita Kvígindisá,*) sbr. örnefnin Kvígindisfell og Kvígindisfjörður. — Hún rennur um dal, sem nú kallast Kvígildisdalur, en hefir eflaust heitið Kvígindisdalur (Kvígandis-, Kvígendis-, Kvígindis-), og hefir áin verið kennd við hann, eins og venja er til, nefnd Kvígindisdalsá, en það nafn síðan stytt og loks afbak-

*) Sbr. skýrslu herra kennara Vald. V. Snævars, Norðfirði.

að. — Bls. 243, 1.—5. l.; greinin um árnar í „Vöðlavík“, — sem svo er kölluð, en heitir að réttu lagi Vaðlavík, — er ekki alls kostar rétt; hefir Jónasi ekki verið skýrt rétt og greinilega frá um þær. „Karlstaðaá“ heitir (nú) Dysjardalsá, að minnsta kosti þar sem hún fellur um Dysjardal; „Ímastaðaá“ heitir (nú) Ímadalsá; kemur úr Ímadal (upprunalega Ímastaðadal að líkindum) og fellur í Kirkjubólsá (aðalána í víkinni) nokkru utar en Dysjardalsá („Karlstaðaá). — Geta hefði mátt um Þverá og Vatnsá, sem falla í Kirkjubólsá ofar, en prófastur hefir ekki nefnt þær í sóknarlýsingu sinni. — „norðan-við“ (5. l.), réttara (nú) „austan-við“. — 8. l., „Teistaá“, upphaflega Þeistaá, ef ekki Þeista, — svo hét á í Noregi (nú Teista). — 9. l., „Flesjaá“; réttara mun Flesjará (sbr. Flesjarhraun, innan-við hana), kennd við fles (Fles), sem er skammt fyrir innan ármynnið, örskot frá landi. — 19.—20. l.; „Goðá“ mun nú (oftast) nefnd Sellátraá; „utan“ er ekki rétt, heldur „innan“. — Kaflinn á bls. 243—244 um árnar í „Vöðlavík“ og Reyðarfirði er eftir sóknarlýsingu Hallgríms prófasts Jónssonar á Hólmum, skrifaðri í Nóvember 1843. — Bls. 244, 1.—2. l., „Njörvadalsá“ o. s. frv.; hún fellur (nú) í Norðurá (en ekki í Sléttuá), og sömuleiðis Geithúsaá, sem kemur ofan-úr Sléttadal. — Séra Hallgrímur getur ekki um Norðurá; hún kann að hafa myndazt síðar. — 8. l., „Hrútá“; þær eru raunar 2, er svo heita. — 11. og 13. l., „Áreyjará“ á að vera „Áreyjaá“ og sömuleiðis „Áreyjarbæ“ „Áreyjabæ“. — 17.—18. l., „Grjótá eður Hjálmadalsá“ mun nú kölluð Króará; hún og Skóg(a)dalsá mynda Stuðlaá. — 23.—24. l., „Fossárdal“ kalla menn nú Fossdal og „Hrútárdal“ Hrútadal. — Árnar í Fáskrúðsfirði (bls. 244—245) eru taldar eftir sóknarlýsingu séra Ólafs Indriðasonar, skrifaðri í September 1841, og árnar í Stöðvarfirði (bls. 246—248) eftir sóknarlýsingu séra Magnúsar Bergssonar, dags. 31. Desember 1839. Um helztu árnar í Breiðdal er eftir sóknarlýsingu séra Snorra Brynjólfssonar í Heydölum, dags. 4. Okt. 1840. — Bls. 245, 6. l. (sbr. 8. l.), „Kjapteyri“, betra „Kjapp(a)eyri“, sbr. Árb. Fornlfél. 1923, bls. 94. — 12. l., „Sanddal“, svo ehr.; rétt „Sauðdal“. — 16. l.; „Tungudalsá“ kallast nú Tunguá. — Bls. 248, 13. l., „Stafnsheiði“, les „Stafsheiði“. — Kaflinn á efri hluta bls. 249 er eftir sóknarlýsingu séra Péturs Jónssonar í Berufirði, dags. 6. Sept. 1840, og síðan tekur við kafli á bls. 249—252 um Búlandsá og þær ár, er renna í Hamarsfjörð og Álftafjörð, og er hann eftir sóknarlýsingu Hofs- og Háls-sókna eftir séra Jón Bergsson á Hofi, dags. 15. Okt. 1840. — Bls. 249, 8. l., „Líkarvatni“, les „Líkárvatni“. — Þessar sóknalýsingar úr Múlaþingi, sem Jónas hefir farið eftir,

eru nú í nr. 18 í abr. í hrs. Bmf. Finnur Magnússon hefir skrifað svo-látandi minnisgreinar á skrá, sem er nú framan-við þær: „Sendast hr. Jónasi Hallgrímssyni til Sóreyjar þ. 10. Október. Fengnar mér aftur í hendur þann 26. Júlí 1844“. — Frá þessum tíma er vafalaust þessi kafli um vatnsföll í Múlaþingi, sennilega frá Júní og Júlí, sbr. V. b., bls. CLXIII.

Þá er kaflinn um *vatnsföll í Húnaþingi*, bls. 253—260. — Sóknarlýsing Staðar í Hrútafirði er dags. 13. Sept. 1848, nær 3½ ári eftir að Jónas var dáinn. — Um árnar í Miðfirði (bls. 253—254) hefir hann skrifað eftir sóknarlýsingu séra Þorláks Stefánssonar á Króksstöðum, þá-verandi aðstoðarprests; er hún ekki dagsett. Um árnar á Vatnsnesi (bls. 254) er að sumu leyti eftir sóknarlýsingu séra Ögmundar Sigurðssonar á Tjörn, dags. 28. Jan. 1840, og kaflinn á bls. 255 (neðst) til 257 (efst) er eftir sóknarlýsingu Þingeyrasóknar eftir Jón prófast Pétursson í Steinnesi; hún var send Bókmfél. með bréfi, dags. 6. Marz 1840. — Bls. 254, „Kirkjuhvammsá“; Hvammsárnar eru tvær, Ytri-Hvammsá og Syðri-Hvammsá; hin síðar-nefnda fellur sunnan-við Kirkjuhvamm (og síðan til suðvesturs um Hvammstanga) og mun vera sú, er Jónas nefnir Kirkjuhvammsá. — Á milli Ytri-Hvammsár og Brandaskarðsár, sem hér er nefnd næst, eru smáár 3, Grímsá, Vallará og Sauðadalsá; hinar fyr-nefndu eru báðar mjög stuttar, en milli þeirra er fjórða áin, Hamarsá, sem er þeirra langmest og myndast af þrem ám, er falla saman nálægt Dalkoti, Dalkotsá, Mjóadalsá og Guðdalsá. — 14.—15. l., „Miðtungufjalli“. Miðtunga er milli Ásgarðsdals og Ambáttardals, en Brandaskarðsá fellur ofan-úr Brandafelli, sem er vestan Ambáttardals (og Miðtungu). — Þorgrímsstaðaá er nú venjulega kennd við bæinn Tungu, nefnd Tunguá, einkum þar utan-til í Þorgrímsstaðadal. — 20.—21. l., „Múla og Katadalsfjalls“, þ. e. Tungu og Norðurfjalls, sem nú kallast svo. — 7. l. a. n.; Þórsá og Þórsvötn munu nú stundum nefnd Þjórsá og Þjórsárvötn, en ranglega, sbr. Ísl. fornbrs., 7. b., bls. 720. — 4. l. a. n., „innanverðu“; réttara virðist „utanverðu“. — 1. l. a. n., „Húnaflóa“, svo ehr.; ætti að vera „Húnafjarðar“. — Bls. 254—255. Um Sigríðarstaðaós sjá ferðabók Ólafs Olaviusar, bls. 237—38. — Bls. 255. Á eftir greininni um Sigríðarstaðaós hefði mátt skýra frá Hólaá, sem fellur í Sigríðarstaðavatn, og Grundará og Reyðarlæk (með Hörghólsá), sem renna í Vesturhópsvatn. — Fitjaá fellur í Víðidalsá að suðvestan, en Ásgeirsá og Dalsá (úr Melrakkadal) að suðaustan. — Kornsá, eldra heiti var Karnsá (eða Kárnsá); sbr. Kr. Kål., Isl. Beskr., II., 38—39. — 1. l. a. n., „Undirfells-“, upprunalega „Undurnfells“ (Undorn-

fells), sbr. Landnámab., Vatnsdælas. o. fl. — Bls. 256, „Kvísl“ er nú venjulega nefnd (af utansveitarmönnum) Hnausakvísl. — 12. l., „eyrar“, svo ehr., réttara „engjar“. — 11. l. a. n., „Skriðuvatni“, les „Skriðuvaði“, og 5. l. a. n., „vað í“, les „vað á“. — Um Skíðastaðaskriðu sjá Ann. 1400—1800, I., 105. — Sauðadalur er milli Vatnsdalsfjalls og Svínadalsfjalls; norðan-við það er Reykjanibba, eða rauninni nyrzt á því. — 1. l. a. n., „að austan“; nú er tanginn að vestan miklu lengri; hefir ósinn að vestan lokazt, en annar myndazt mjög austarlega, gegnt Torfalæk. — Bls. 257, 12. l., „Hjaltabakka-sókna“; nú er kirkjan á Blönduósi og sóknin kennd við hann. — 14. l., „úr Svínavatni“, réttara „úr Laxárvatni“. — Á bls. 257—258 (miðja) er kafli eftir sóknarlýsingu séra Sveins Níelssonar í Blöndudalshólum, er var send með bréfi, dags. 13. Nóv. 1839; og þá tekur við kafli úr sóknarlýsingu séra Páls Halldórssonar á Bergsstöðum, er send var Bókmfél. með bréfi hans, dags. 12. Febr. 1842. Neðst á bls. 259 er enn smákafli úr sóknarlýsingu séra Sveins, en um það, sem er efst á bls. 260, mun Jónas ekki hafa þurft að leita upplýsinga hjá öðrum. — Bls. 259, 8. l., „Sæmundarvötnum“; þau munu nú venjulega nefnd Hólsvötn (eystra og vestra); kemur áin úr hinu vestra, en lækur er milli þeirra. — 11. l. a. n., „þvert vestur“, öllu heldur suðvestur.

Sóknarlýsingarnar úr Húnaþingi eru í nr. 21 í abr. í hrs. Bókmfél. Finnur Magnússon hefir skrifað þessa minnisgrein á skrána yfir þær: „Allar þær innkomnu lýsingar Húnavatnssýslu sendar hr. Jónasi Hallgrímssyni til Sóreyjar þann 22. Marts 1844 (með tilheyrandi skjölum)“. Mun Jónas hafa skrifað þennan kafla skömmu síðar.

*II. Úr þætti um eyjar og sker. — A. Eyjar og sker í Múlaþingi* (bls. 260—277). Sá kafli er einnig skrifaður eftir sóknalýsingum, hinum sömu og kaflinn hér á undan (bls. 221—252) um vatnsföllin þar. Upplýsingarnar eru svör prestanna við 10. og 18. spurningu, er þeim höfðu verið sendar (sbr. bls. 208—209. Það, sem er hér á bls. 260, er eftir sóknarlýsingu Guttorms prófasts á Hofi, og það, sem er efst á bls. 261, styðst við sóknarlýsing séra Snorra á Desjarmýri, og um Eyjar og sker á Reyðarfirði (bls. 261—262) er eftir sóknarlýsingu Hallgríms prófasts á Hólmum; síðan kemur allmikill kafli (frá bls. 262 miðri og aftur á bls. 266, efst) eftir sóknarlýsingu séra Ólafs Indriðasonar. — Bls. 261, 2. l., „hvort“, les „hvert“. — Bls. 263, 13. l., „Drápu-steini“, þ. e. sams konar steintegund og er í Drápuhlíðarfjalli í Helgafellssveit, nefnilega lípariti. — 4. l. a. n. (í aths.), „Maríu-rímur“, mun eiga að vera Maríu-vísur; þær eru

til ýmsar, en Maríu-rímur munu ekki kunnar. — 2. l. a. n., „Andrarímur“; sjá um þær í Digtningen på Island i det 15. og 16. årh. af Jón Þorkelsson, Kh. 1888, bls. 284—291. — Bls. 264, 3.—4. l., „[Glaubersalti(?)]“; eyða er fyrir orðinu og því er það hér í hornklofum, og með spurningarmerki, því að ekki er víst, að Jónas hefði sett þetta, en það er eftir sóknarlýsingunni: „Á nokkrum stöðum í innrahellinum fann eg manna fyrstur árið 1838 meðfram neðanverðu berginu sunnan-fram töluvert af Glaubersalti, bæði hreinu og aurblöndnu, og líka vott til þess í skorum hér og þar upp um bergið. Það líkist bæði að útliti, smekk og lækniskrafti almennu Glaubersalti“. — Glauber-salt (sal mirabilis Glauberi, þ. e. natriumsulfat, brennisteinssúrt natron) er kennt við Johann Rudolph Glauber (1603—1670), þýzkan lækni og efnafræðing, er fann upp aðferð til að framleiða það, og nefndi það á latínu *sal mirabilis* (undrasalt). Nú má framleiða það á ýmsan hátt og það er notað til margra hluta, einkum glergjörðar, litarefna og sóda, og einnig er það notað sem hægðameðal, eins og séra Ólafur á við. Það er mjög ólíklegt, að það salt, sem hann hefir fundið í hellinum, hafi verið Glauber-salt. Að sönnu finnst það sjálfgert í náttúrunni, en helzt blandað í önnur sölt eða vatn, og einnig er það í venjulegum sjó. Saltið í hellinum hefir sennilega myndazt af sjó, er rokið hefir inn í hann, og kann að vísu að hafa verið örlítið af Glaubersalti í því. Áhrif þess á meltingarfærin kunna einnig að hafa verið lík og Glauber-salts. — Sbr. e. fr. I. b., bls. 124—125, m. aths. — 15. l., „Skrúinn“, les „Skrúðinn“. — Kaflinn um sker og boða á Stöðvarfirði (bls. 266) er eftir sóknarlýsingu séra Magnúsar Bergssonar, og um eyjar og sker á Breiðdalsfirði að sumu leyti eftir sóknarlýsingu séra Snorra í Heydölum, og e. fr. er lítill bútur (á bls. 267, neðst) um hólma og sker á Berufirði eftir sóknarlýsingu séra Péturs. — Þá tekur við tiltölulega langur kafli (á bls. 267, neðst, til bls. 277, efst), sem allur er úr sóknarlýsingu séra Jóns Bergssonar, svörum hans við 10. og 18. spurningunni, eins og Jónas tekur einnig fram á bls. 272, að því er snertir sker o. fl.

*B. Vestmannaeyjar.* Lýsing þeirra (bls. 277—300) er skrifuð eftir Vestmannaeyja-lýsingu séra Jóns Austmanns, „Útskýringartilraun yfir Vestmannaeyjar“, endaðri í Ofanleiti 17. Júlí 1843;*) að sumu leyti byggist þessi lýsing Jónasar á eigin at-

---

*) Sbr. um þessa o. fl. lýsingar á Vestmannaeyjum Árb. Fornleifafél. 1913, bls. 17—19.

hugunum, sbr. III. b., bls. 32—43, og e. fr. bls. 160—161 hér að framan. — Bls. 277, 15. l. a. n., „sem síðar verður sagt“; Jónas á hér sennilega við það, sem hann hefir ætlað að láta standa síðar í Íslands-lýsingu um Helgafell og hraunin þaðan, í þeim „þætti um eldgos“ og eldfjöll, sem hann nefnir á bls. 278; var það þá að finna í eldriti hans í nr. 11 í abr. í hrs. Bmf. (sbr. bls. 309 hér að framan) og á bls. 160—161 hér; sbr. einnig bls. 278 hér. — 4. l. a. n., „Eiði“, fullu nafni heitir það Þræla-eið(i), sbr. bls. 281—282. — Bls. 278, 1.—2. l. a. n., „millum 800 og 900 feta“; á uppdrætti herforingjaráðsins (frá 1905) er Helgafell talið 226 m. hátt, þ. e. 720 fet. — Bls. 280, 13. l. a. n., „Stafnsnes“; svo heitir það, en ekki Stafsnes, eins og nafnið er ritað á uppdrætti herforingjaráðsins frá 1905. — 4. l. a. n., „ „Oddur á Hánni“;“ sbr. Tyrkjaránið á Íslandi 1627, Rvík. 1906—9, bls. 94—6 og 142—44, og víðar; hann var formaður í eyjunum, var norskur að ætt, Pétursson. — Bls. 281, 6. l. a. n., „bæjarrústirnar“; um bæjarrústirnar í Herjólfsdal sjá Árb. Fornlfél. 1913, 7—9 og 26—28, e. fr. 1925—26, 18—21. — Bls. 282, 8.—10. l. a. n.; um menn, sem hafa hrapað í björgum í Vestmannaeyjum síðustu 100 árin er skrá í Blöndu, IV., 242—51, eftir Sigfús M. Johnsen. — Bls. 287, 14. l. a. n., „vatnslind“ o. s. frv.; um hana sjá Árb. Fornlfél. 1913, bls. 25—26. — Bls. 288, 14. l. a. n., „Vilpa“ o. s. frv., sbr. Blöndu, II., 243—44. — Bls. 299, 6. l., „grasi vaxið flatlendi“ o. s. frv. Sögnin um það og kúareksturinn þangað er vitanlega helber uppspuni. — Bls. 300, 15. l., „viku sjávar“ o. s. frv. 1 vika sjávar er talin (ca.) 1 dönsk míla (þ. e. landmíla) í íslenzkum reikningsbókum. Danir telja 1 danska mílu 7532,48 m. Eftir uppdrætti herforingjaráðsins frá 1905 liggur Eini-drangur 6250 m., þ. e. miklu skemmra en 1 viku sjávar, útsuður frá Dröngum, — en rétta 15000 m., eða nær því 2 vikur sjávar, vestur af Stafnsnesi.

*C. Eyjar og sker í Húnaþingi.* — Það lítið, sem Jónas hefir ritað um þær eyjar og þau sker, er aðallega eftir 2 sóknalýsingum, séra Ögmundar á Tjörn og séra Einars Guðbrandssonar á Hjaltabakka (frá 1840). Frá Stað í Hrútafirði var þá enn engin sóknarlýsing komin og frá Melstað kom aldrei nein sóknarlýsing; er því það, sem segir um Hrútey á bls. 300, byggt á annari heimild. Í hr. er eyða fyrir dúnpundatölunni, og er hún sett hér eftir brauðlýsingu Jónasar í nr. 4 í abr. í hrs. Bmf.; sbr. einnig Jarðatal á Íslandi, Kh. 1847, bls. 248 („fást þar nú 17 pund æðardúns“). Í sóknarlýsingu Staðar frá 1848 er sagt, að æðarvarpið muni „gefa af sér nálægt 30 pund dúns árlega“. —

Eyðan í 1. l. þessarar smágreinar um Hrútey er fyllt eftir þessari sóknarlýsingu. — Hrútey liggur í miðjum firði, en ekki að austanverðu; það má aftur á móti segja um Bæjarey og Baldhólma, Ljótunarstaðahólma og Prestbakkaey, sem öll eru utar í firðinum.

*MATTH. ÞÓRÐARSON.*

---

# EFNISYFIRLIT.

